# Tvennar
# Viku-Bænir
og
# Psálmar,
til
gudrækilegrar Húss-andaktar.

Bidjid, og mun ydur gefast; leitid, svo munud þjer finna; knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda.
Jesús.

Hverid selst almennt bundid, 15 skild.

Leirárgørdum vid Leirá, 1800.
Prentad á kostnad Islands almennu Uppfrædingar Stiptunar,
af Factóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjörd.

# Til Lesarans.

Umqvørtun Alþýdu yfir skorti góðra Viku-bæna og Psálma, hefir Islands almenna Lands-Uppfrædíngar Stiptan ecki geta huggad, med útgáfu nýrra Viku-bæna og Psálma 1798, þar eptir sem ádur heyrist yfir þessum skorti klagad; hvørt þørfin kann ad vera svo stór, sem af er látid, skal af mjer ódæmt, edur, hvørt ecki hefdi betur kunnad ad fara, ef ordunum: nýjar og nýjum, á Titilbladi qversins, hefdi verid sleppt, og þad þess vegna ljúfar medtekid, einkum af þeim, er kynnu ad láta ser nægja, ad lesa titil einnrar bókar, og af honum dæma um hennar verd, og hvørjum undir eins allar umbreytingar værir svo ógedfeldar. Til ad reyna, enn einu-sinni, ad bæta úr þessum yfirqvartada skorti, og líka gjøra sem mest ad vilja þeirra, sem elska meir gamallt enn nýtt, lætur nú Islands almenna

Lands-

Lands-Uppfrædingar Stiptan þessar tvenn-
ar Viku-bænir og Psálma á prent útgánga.
Þær fyrri eru Dr. Lassenii Viku-bænir, út-
lagdar af Biskupi Mag. S. Jónssyni; hinar
eru gjørdar af Biskupi J. Teitssyni. Þeir
fyrri Viku-psálmar eru orktir af Þ. Magnús-
syni; hinir sídari eru sumpart nýir, af hvørjum
þeir 6 fyrstu og sá 8di eru orktir af Hra. Skóla-
haldara Þorvaldi Bødvarssyni; 7di, 9di og
10di af Hra. Prófasti Christjáni Jóhannssyni;
11ti og 12ti af Sigurdi Jónssyni, fyrrum Presti
til Prestshóla í Þíngeyjar-sýslu; og 13di og
14di af Þorvaldi Stephánssyni, seinast Presti
ad Hofi í Vopnafirdi. Stiptanin vonar, ad
þessi tilraun hennar, sem grundvøllud er á Al-
þýdu innilegri ósk: ad fá gódar gamlar
Bænir og Psálma til gudrækilegrar
húss-andaktar, verdi af øllum gódum og skyn-
sømum vel medtekin.

Hvanneyri, þann 8da Apr. 1800.

S. Stephensen.



Dr. J. Lassenii

# Viku-Bænir,

úr þýdsku útlagdar af

Mag. Steini Jónssyni,

fordum Biskupi Hóla-stiptis.

---

## Sunnudags Morgun-bæn.

Lof og þackir, pris og æra sé þér, miskunsami Gud og Fadir! sem á þessari umlidinni nóttu hefir audsýnt oss þína fødurlegu miskun og mildi, og unnt oss ad sofa hraustum og heilbrygdum, án allrar ólucku og háskasemda. Þú hefir vardveitt oss, svo sem einn vardveitir sjáaldur sins auga, geymt oss undir

skugga þinna vængja, og unnt oss ad líta aptur þessa dags ljós med gledi og ánægju. Vér prísum þig fyrir allar þínar dásemdir, og þöckum þér fyrir alla þína nád, sem þú hefir oss, frá lífi vorra mædra til þessarar stundar; andsýnt! miskuna þig framvegis yfir oss, vesælar manneskjur! fyrirgéf oss allar vorar syndir, og taktú ecki þína hønd frá oss; já, mildiríki Fadir! minnstu þess dýrmæta lausnar-gjalds, vors Endurlausnara, Jesú, og vertú oss fyrir þess sakir nádugur; kasta oss ecki frá þínu heilaga augliti, heldur tak oss nú í dag inn í þinn fodurlega fadm og nádar-skaut. Vardveittú, eptir þínum fodurlegum miskunar vilja, vort líf og líkama á þessum degi, og lát eckért íllt nálægja sig til vor; því í þínar fodurlegu høndur felum vér oss og allt þad, sem oss tilheyrir. Þú ert vor Fadir, og vér þín børn, æ! lát oss í þínum heilogu

hønd-

bondum, til tímanlegrar og eilífrar blessunar, æfinlega teiknada vera. Miskuna þig yfir oss alla, og vertu oss nádugur nú í dag og ætíd, en einkum á vorri dauda-stundu, og á degi þins sídasta allsherjar doms, fyrir þins elskulega Sonar Jesú Krists sakir! Fadir vor, rc.

## Sunnudags Qvøld-bæn.

Drottinn Gud Fadir á himnum og Herra vors lífs! þín verk eru einsømul gædska og trúfesti; þú hefir oss á þessum degi lifandi vidhaldid og allt gott audsýnt, og, eptir þinni miklu og háloflegu miskunsemi, vardveitt oss fyrir øllu illu. Lífid og allt gott hefir þú oss veitt, og þín umsjón hefir vardveitt vorn andar-drátt, þar fyrir prísar þig sála vor! hjálpa oss nú framvegis, fyrir þíns nafns sakir, þú blessada Israels traust! afmá vorar mis-

gjørdir sem ský, og vorar syndir sem þoku! hreinsa vorar samvitskur af dauðum verkum, fyrir Jesú Krists úthellta saklausa blód! tak ecki þína hønd frá oss, og yfirgéf oss ecki! sjá! elskulegasti Fadir! nú er nóttin komin og dymmt í kríngum oss; æ! þú, vort fegursta ljós! yfirgéfdú oss ecki! vor fagra sól! gácktú nú ecki undir í vorum hjørtum! Settú vakt þinna heilogu engla í kríngum oss, sem frá øllum skada og háskasemdum á lífi, æru og gótsi oss nádarsamlega vardveiti. Blessa þú vorn svefn, og lát oss í þér hvíld og rósemi hafa; þitt heilaga ord, sem í dag hefir verid kénnt og vér høfum numid, sé vort ljós og leidar-stjarna. O! þú gódi Gud og Fadir! vér felum oss þér, vor von er í þér, undir skugga þíña almættis vængia erum vér óhultir; tak ad þér framvegis vorar sálir, og lát oss, eptir þínum nádugum vilja, á morgun glad-

vœra

væra uppvakna, til ad lofa þig og vegsama, fyrir árnadar-ords sakir þíns elskulegasta sonar, vors Frelsara Jesú! **Fadir vor,** 2c.

## Mánudags Morgun-bæn.

Miskunsami Gud og Fadir! á þessari morgun-stundu framkomum vér fyrir tignar-stól þinnar guddómlegrar gædsku, og segjum þér hjartans þacklæti fyrir, þad, ad þú hefir enn þá burtvikid myrkrinu frá oss, og látid oss hrausta og frábrygda uppstanda af vorum svefni, O! hjartkjæri Fadir! þín hönd hefir verndad oss, svo engin ólucka hefir hrellt oss eda skadad; þar fyrir skulum vér nú og framvegis lofa og vegsama þitt nafn. O! þú miskunsami Gud! fyrirgéf oss allar vorar syndir, og gjör vel vid oss; minnstú ecki á syndir vors úngdóms, og á vorar yfirtrodslur, heldur minnstú vor

eptir þinni mikilli miskunsemi, sakir þinnar guddómlegu gædsku. Lát þína heilaga engla vernda oss í dag og alla tíma, á øllum vorum vegum og stigum, svo ad vér fyrir øllum skada fødurlega vardveittir verdum; því þér, vor Gud! felum vér á hendur sálir vorar og líkama; vernda oss og vardveit, hlíf þú oss og vidhaldt, ad eckért vondt nálægi sig til vor. Vertú vor skjoldur og verja; hlífa vorn inngáng og útgáng; hugga og endurnær alla sorgandi og sjúka; hjálpa øllum naudstøddum og þurfamønnum; en ef þad er vilji þinn, ad mótlæti beri oss til handa, þá géf oss ráð ~~og~~ styrk og þolinmædi ad umbera þad. Blessa þú einnig, gódi Fadir! í dag og alla þessa viku vort erfidi og atvinnu og øll verk vorrar kallanar, svo vor mæda og erfidi verdi ecki til ónýtis. Láttú oss stadfastlega hugsa um þig og minnast þín, halda þér í vorum hjørtum, hafa

hafa þinn ótta fyrir augum, kristilega lifa og sáluhjálplega deyja. Þetta virdstú ad veita oss fyrir Jesúm Krist vorn Endurlausnara! Fadir vor, 2c.

## Mánudags Qvøld-bæn.

Nú er þessi dagur umlidinn, allra gódgjarnasti og elskurikasti Gud og Fadir! á honum høfum vér, fyrir þína stadfastlega vakandi nádar-forsjón, fødurlega vardveittir verid, frá øllum lífs og sálar skada og háskasemdum; þinni miskunsemi þøckum vér þar fyrir af øllu voru hjarta, og grátbænum þig audmjúklega, í þíns elskulegasta sonar Jesú Krists nafni: fyrirgéf oss, ó Fadir! þínum børnum, allt þad, med hvorju vér á þessum degi í hugrenningum, ordum og verkum þig styggt og módgad høfum. Æ! miskunsamasti Gud! þú, sem ert ríkur af nád

og gædsku! minnstú þess dýrmæta, blóðuga lausnar-gjalds vors Endurlausnara Jesú, vertú oss fyrir þess sakir miskunsamur, og tilreikna ecki vorar þúngu syndir sálum vorum! miskuna þig yfir oss, o! þú allra elskuríkasti Gud! vér liggjum hér fyrir þínu heilaga augliti med sundurkromdum hjørtum. AE! Drottinn Gud! vertú oss aumum syndurum nádugur! snú þú augum þínar fodurlegrar miskunar til vor, og lát þína heilaga blessun, hlífd og vardveitslu, á þessari yfirstandandi nóttu, yfir oss koma. Vardveittú sálu vora og líkama og allt hvad vort er, fyrir allri neyd og háskasemdum; lát enga hrædslu eda hormúng yfir oss koma; vak þú yfir oss, vor heill, hjálpræði og hellu-bjarg, uppá þig einúngis reidum vér oss, o Gud! undir skugga þinnar nádar-vængja er vort traust. AE! miskunsami Gud! hugga þú einnig, á þess-

þessari nóttu, allar harmþrúngnar og yfirgéfnar manneskjur; lát þína gæðsku styrkja og hughreysta alla þá, sem freistaðir og sturlaðir eru, og vertú náðugur allri þinni kristni, þeim litla hóp þinna útvaldra. Drottinn Guð, almáttugi Faðir! í þínu nafni leggjum vér oss nú til svefns; lát þína heilaga engla vera vora vaktara kríngum oss, og unn oss í réttann tíma, þér til lofs og æru, upp aptur vakna. Þér sé lof og dýrð að eilífu! **Faðir vor, ꝛc.**

## Þriðjudags Morgun-bæn.

Hjartkjærasti Herra Jesú, vor Frelsari! þínu heilaga nafni og dýrmætu elsku hofum vér það að þakka, að myrkra-skuggi þessarar nætur hefir ecki megnað oss hið minnsta mein að vinna; þú hefir oss á lífi og sálu náðarsamlega varðveitt, og fyrir þitt almætti látið oss

líta þessa dags ljós. Já, þú ber, mildiríkasti Frelsari! daglega umsorgun fyrir oss, og yfirskyggir oss med þinni náð, ótal-þúsundsinnum framar enn vér í nockurn máta géttum þad verduglega þackad, miklu sídur verdskuldad. Vér medkénnum: ad allt vort líferni, og öll vor verk, eru ecki añad enn synd og ránglæti; en vér bidjum þig, o! vor guddómlegi Frelsari! þú, sem alls mañkynsins syndir hefir borid, og fyrir þær fullu bætt: æ! vertú oss aumum syndurum miskunsamur! bid fyrir oss þinn himneska Fødur, og lát oss finna náð fyrir hans augliti. Æ! Herra Jesú! lát þína heilögu forþénustu ecki verda til ónýtis á oss, vesælum syndurum! Stjórna oss á þessum degi og ætíd, fyrir þinn verduga heilaga Anda, svo vér fordumst þad vonda, en stöndum stödugir í þinni dýrkun og þjónustu; vardveittú oss fyrir veraldarinnar

vél-

vélum og svikſemi, og lát oſs ætíd, í Þinnar nádar og verndar-skjóli, hættulauſa vera. Drottinn Jeſú! Þér felum vér oſs allir í dag med líſi og ſálu og öllum efnum; lát Þína bleſſun vera ſtadfaſta yfir oſs; bleſſa verk vorrar köllunar; géf oſs vorn deildann verd; hafdú umſorgun fyrir oſs, o Jeſú! og vertú alla tíma vor heill og hjálprædi, ſvó munum vér, bædi hér tímanlega, og ſídar eilífiega, ſanna fullnægju hafa! Fadir vor, ꝛc.

## Þridjudags Qvøld-bæn.

Elſkulegaſti Drottinn Jeſús! hvørnig kunnum vér Þitt nafn nógſamlega ad upphefja, og Þína elſku verduglega ad príſa? Þínum nádar vøxtum ... egum vér Þad ad Þacka, ad vér, med øllu Því oſs tilheyrir, høfum á Þeſſum degi nádarſamlega vardveittir, og frá allri

 áng-

ángist og ólucku verndadir verid.
AE! Drottinn Jesú! minnstú vor
og framvegis til hins besta, og láttú
oss ecki, á þessari ysirkomandi dym̄u
nóttu, þína miskunar-sól undir-
gánga. Vertú, o! mildirikasti Frelsari!
allt til vors lífs enda, vort ljós
og athvarf; minnstú ecki á vorar
ysirtrodslur, med hvorjum vér hof-
um syndgad á móti þér; fyrirgéf
oss allar vorar vitanlegar og óvit-
anlégar syndir og misgjordir, og
veit oss framvegis þína nád og hei-
lega hjástod, svo ad vér, vegna hrein̄-
ar elsku til þín, fordumst og flýjum
allar girndir og lystíngar til synd-
an̄a, ad vér géfum þér einum rúm
í vorum hjortum, þig þar einan̄ her-
bergjum, og í þinni vidurkénníngu
og ótta stadfastlega framholdum.
O! þú elskulégasti Herra Jesú! snú
þú frá oss allri hormúng og ángist
lífs og sálar; vertú á þessari nóttu
vor vernd og fasta slot, svo oss eck-
ért

ért íllt hendi. Drottinn! vér erum þínir, og þú ert vor, þú ert vort høfud, yfirgéfdú oss ecki, sem erum limir á þínum líkama. Til þinnar heilogu forþénustu høfum vér allt vort traust og tilflugt; æ! blessa þú vorn svefn, og lát sætleika þíns heilaga nafns gledja vorar sálir; vidhaldtú voru lífi, eptir þínum nádugavilja; set þá eldlegu og heilogu vakt þinna engla kringum oss, svo vér ad komanda morgni megum skadlausir uppvakna, og þig, vorn Drottinn! med gladværum munni prísa. Bænheyr oss, o Jesú! vort ljós og líf, fyrir sjálfs þíns sakir! Fadir vor, rc.

## Midvikudags Morgun-bæn.

Almáttugi Gud, Fadir og Herra vors lífs! vér þøckum þér af innsta hjartans grunni fyrir þad, ad þú hefir á þessari umlidinni nóttu,

 hald-

haldid þinni fødurlegri miſkunar-
hend yfir oſs, og látid oſs aptur upp-
ſtanda, til ad lofa þig og vegſama.
Vér bidjum þig, fyrir Jeſúm Kriſt
þinn ſon, vorn medalgángara: lát
oſs nu á þeſſum degi, til þinar ſomu
nádar, elſku og umſorgunar befal-
ada vera. Stjórna vorum hjørt-
um, ſinni, hugrenníngum, ordum
og verkum, fyrir þinn verduga hei-
laga Anda, ſvo ad vér eckért íllt ad-
høfumſt, eda ſtyggjum þig. Æ!
Drottinn almáttugi Gud! þú ert
vor Fadir, og vér þín børn; yfirgéf
oſs ecki; til þín er oſs varpad frá
lífi vorra mœdra; vor lucka og ó-
lucka ſtendur í þinni hendi. Viljir
þú á þeſſum degi unna oſs luckn og
medlœtis, ſvo veit oſs jafnframt
þína hjáſtod, ad vér brúkum þad
réttilega; ſkuli ólucka eda mólœti
þarámóti ramma oſs, ſvo géf oſs
ſtoduga þolinmœdi ad umbera þad.
J þinu nafni, o! himneſki Fadir!
byr-

byrjum vér öll vor verk í dag; send oss þína föðurlegu aðstoð til að framqvæma það, sem vera ber, og til að taka með þakklæti á móti því, er þú veitir oss og gefur af þeim tímanlegu munum, en afvend frá oss öllum veraldlegum syndugum fýsnum og girndum; vertu oss ecki hræðilegur Guð, í vorri neyð; því þegar vér egum þig að, þá hyrðum vér hvorki um himin né jörð; þú ert oss dýrmætari enn allir veraldar fjársjóðir. Æ! vor Guð! lát oss þig aldrei yfirgéfa; vertu með oss á þessum degi og alla tíma; vér afhendum oss þíni föðurlegri gæðsku, með lífi og sálu og öllum efnum. Tak að þér, o Guð! allar aumar og nauðstaddar manneskjur, allar harmþrúngnar og huggunar-lausar, og vertu allra manna hjálp, traust og ráð. Leið þú oss svo í þessum heimi, að vér á síðan mættum hæfir verða að inngánga í sælufulla eilífð

annars heims. Bænheyr oss, gódi Fadir! fyrir Jesúm Krist vorn Endurlausnara! **Fadir vor, 2c.**

## Midvikudags Qvøld-bæn.

Gædskurlki Gud og Fadir! þú, sem hefir skapad daginn til erfidis, en nóttina til hvíldar; vér viljum nú leggja oss til svefns; en vort hjarta og samvitska vitna fyrir oss, hvørnig vér høfum þitt trúa fødurshjarta, med vorum syndum, margfaldlega til reidi reitt, og þess vegna framar þína reidi en nád verdskuldad. Samt komum vér nú aptur til þín, og bidjum um nád og fyrirgéfningu. Æ! himneski Fadir! burtkasta oss ecki í þinni reidi, heldur minnstú á þín egin ord: ad þú viljir ecki syndarans dauda, heldur ad hann betri sig og lifi. Allt er þad oss af hjarta leidt, sem vér misgjørt høfum; sinn þú oss, Drottinn! svo verd-

ur oſs ſnúid. O! himneſki Fadir! taktú oſs nú á þeſſari nóttu undir þína nádugu vernd og vardveitſlu; vernda ſálir vorar og líkami og alla vora vini og vanda-menn; vertú á þeſſari dymmu nóttu fagurt ljós vorra ſálna, og ef einhvør ólucka, fár edur neyd kynni yfirhángandi vera, ſvo haldtú oſs, Drottinn! undir vernd þinnar handar, ſvo oſs eckért íllt ad høndum komi. Vardveit oſs fyrir íllum og ólegum draumum, fyrir ónaudſynlegum og þúngum umſorgunum. Miſkuna þig á þeſſari nóttu yfir alla menn, ſem þú hefir til þín kallad; vertú lækníng þeirra ſjúku, og hlífd þeirra aumu. Í þínu nafni viljum vér nú med glødu gédi útaf ſofna; Drottinn, vor Gud! vertú hjá oſs, vertú vor vernd, og vak þú ſjálfur yfir oſs. Vér felum oſs þér, og bidjum af hjarta: láttú oſs á morgun glada uppvakna, og gjør ſvo framvegis vid oſs eins

og þú villt; verdi þinn vilji, vertú oss nádugur, og lát þína gædsku koma yfir oss, þvi vér vonum á þig! Fadir vor, 2c.

## Fimtudags Morgun-bæn.

O! þú almáttugi Gud og Fadir! sem hefir oss, allt frá módur-lífi til þessarar stundar, lifandi vidhaldid; vér komum nú fram fyrir þitt guddómlegt tignar-veldi á þessari morgun-stundu, og prísum þig fyrir alla þína miskunsemi, sem þú hefir oss, á umlidinni nóttu, svo fodurlega audsýnt. Þinn almætti eigum vér ad þacka þad, ad vér erum nú heilbrygdir uppvaknadir. Æ Drottinn! þú veitir oss þúsundfalda gædsku og velgjørdir; en vér megum med mikilli hrigd og ángist vidurkénna, ad vér høfum ecki framgengid fyrir þér, sem oss byrjadi. Æ! þú vor gódi Gud! minnstú á

árnadar ord þíns elskulega sonar, vors Endurlausnara Jesú; þad er oss leidt, vor Gud! já, þad er oss af hjarta leidt, ad vér høfum þig svo þráfaldlega styggt og módgad. O! himneski Fadir! fyrirgéfoss þó, fyrir þíns blessada nafns sakir, vorar margfoldu syndir! sýn miskunsemi þrælum þínum, og burtkasta oss ecki í þinni reidi. Þú ert vor Fadir, frá eilífd er þad þitt nafn, lát oss finna náð hjá þér, og miskuna þig yfir oss á þessum degi. Vér felum þér, gódi Fadir! sálir vorar og líkama, og allt hvad þín miskunarhønd hefir oss géfid; vertú vort og allra manna, sem óttast þig og vidurkénna, ljós og hjálprædi; vertú med oss øllum vorum verkum, og láttú þau vel-luckast, svo vér medtøkum af þinni ørlætis hendi vort braud med þackargjørd. Forda oss fyrir øllu illu, og lát oss bædi í dag og endrarnær framgánga í þínum

ótta,

ótta, þér til dýrdar, náúnganum til nytsemdar, og sjálfum oss til velferdar og sáluhjálpar; heyr þad og bænheyr gódi Fadir! Fadir vor, etc.

## Fimtudags Qvøld-bæn.

Drottinn Gud, fullur nádar og gódgirni, þú, sem audsýnir miskunsemi í þúsund lidu! hvornig kunnum vér þitt nafn nógsamlega ad prísa, og þess lof ad útbreida, þú, sem hefir látid oss útenda þenna dag, án alls háska og skadsemda. Æ! gódi himneski Fadir! taktú nú af oss, til borgunar hér fyrir, þad fullkomna offur þíns elskulega sonar Jesú Krists, og vertú oss fyrir hans skuld framvegis nádugur og miskunsamur. Þú ert vort ljós og sterkt hjálpar-horn! taktú oss nú uppá þína nádar armleggi, vor Gud! sem hefir lofad ad gleyma oss aldrei. Vort hjarta er ángurfullt vegna vorra

vorra synda; æ! miskunsami Gud! fyrirgef þú oss, og gef oss gladværaun anda, svo vér med sannarlegu trúnadar-trausti megum ætíd kalla til þín: Abba, elskulegi Fadir! lát vorar sálir hafa stadfasta rósemi í þér, og þegar vor augu og líkamans limir hvílast, þá haldtú, gódi Gud! þínum augum ætíd vakandi yfir oss, svo engin ólucka hendi oss edur snerti. Vér felum oss, med sálu og líkama og ollum efnum, þinni fodurlegu umsorgun á þessari nóttu, svo vér, fyrir ollu íllu og allri hormúng vel vardveittir verdum, og fyrir þína nádar forsjón aptur uppvoknum, til ad lofa þig og vegsama. Hugga þú einnig á þessari nóttu, allar hriggvar og harmandi manneskjur, og lát alla þá, sem þitt blessada nafn inafni þíns elskulega sonar ákalla, þinnar guddómlegrar hjálpar hlut-takandi verda. Veit oss þína náð og hjástod, gódgjarnasti

Fad-

Fadir! ad vér fáum svo lifad, ad vér ad endudum vorum dögum og þeirra armædu, megum ínugánga í þá sælu-vist, sem vor bródir Jesús, hefir oss útvegad. Bænheyr oss og miskunna oss, vor Gud! fyrir vors Frelsara Jesú skuld! Fadir vor, rc.

## Föstudags Morgun-bæn.

Hjartkjærasti Herra Jesú! hvörsu vært og rólega höfum vér, á þessari nóttu, hvílst og sofid? med hvörsu ánægdum hjörtum erum vér nú aptur uppstadnir? vér þökkum þér fyrir alla þína gædsku, sem þú hefir oss, aumum manneskjum, svo nádarsamlega audsýnt, og bidjum þig af hjarta: fyrirgéf oss allar vorar syndir og misgjörnínga, med hvörjum vér höfum, allt fram á þenna dag, brotid á móti bodum þínum; stjórna nú í dag og alla tíma voru gjörvöllu líferni og athöfnum,

svo

svo vér eckért illt adhøfumst, edur nockud gott forsómum. Drottinn Jesú! styrk þú vora trú, auk vora elsku til þín, og géf oss stadfast traust til þinnar heilogu forlíkunar. O! vor Frelsari! þú, sem á þessum degi létst þinn heilaga líkama nidurleggja í grøfina, æ! géf oss þína nád til ad deyja frá syndunum, en trúlega fylgja þér og þínum lærdómum; láttú oss í dag gánga í þínu ljósi, og undir hlífd þinna heilogu engla vardveitta vera. Blessa oss á sálu, lífi og líkama; geymdú oss, sem sjáaldur þíns auga; taktú oss ad þér, sem þín dýrkeypt børn; vertú med oss í øllum vorum athøfnum, og lát þær vel luckast. Miskuna þig yfir alla þá, sem halda sér vid þig, og géf einum og sérhvørjum sitt daglegt braud; og þegar vér ad endíngu vorra lífdaga, skulum gánga veg daudans og allrar veraldar, vertú oss þá, o Jesú! stod og styrkur; láttú

dauda vera þá vort líf, og þína forþénustuvora ædstu huggun, svo vér mættum þá med trausti trú leggja oss í þitt miskunar-skaut og háskalaust burtu sofna, farandi svo í fridi frá þessari útlegd í gégnum daudañ, inn í þá fyrirheitnu fullsælu hjá sjálfum þér. Bænheyr oss, o Jesú! sakir þinnar dýrmætu elsku og óbrygdanlegu nádar fyrirheita! Fadir vor, ꝛc.

## Fóstudags Qvöld-bæn.

Lofadur veri Gud! dagurinn er lidinn, og nóttin er yfir komin; vér komum eiñig dag eptir dag nær og nær vórum dauda og gröfinni. Æ! elskuríkasti Drottinn Jesú! þín nád og óútmælanleg miskunsemi hefir enn á þessum degi sýnt oss medaumkun, og oss frá öllum háska og skadsemdum verndad. Trúfastasti Immanuel! hvörsu födurlega nun-

umforgun ber þú fyrir børnum þín-
um! hvørsu mildilega og kroptug-
lega verndar þú þau fyrir øllum ó-
forum? æ! ad vér kynnum ad þjóna
þér eins fullkomlega og þú meddeilir
oss þinni ást og kjærleika; en — æ
því verr! — vér megum med ángur-
fullum hjørtum ásaka oss fyrir þad,
ad vér høfum þig, þú heilaga elska!
svo mjøg styggt og módgad í dag,
med vorum syndum og misgjørd-
um; æ! Drottinn Jesú! fyrirgéf
oss þad samt, sakir þinnar dýrmætu
forþénustu. Taktú oss ad þér í nótt
og ætíd; lát þinn guddómlega frid
yfir oss koma, bædi á sálu og lífi, og
unn oss aptur ad líta ljós morgun-
dagsins med gladværum hjørtum.
Vertú nádugur øllum þeim, sem þig
í réttri trú ákalla, miskunna þig yfir
allann kristinndóminn, og lát þína
heiløgu forþénustu ecki verda til ó-
nýtis á nockrum manni. O! Drott-
inn Jesú! láttú á þessari nóttu ljós

þinar guddómlegu nádar fagurlega yfir oss skína, svo ad vor sála, í því ljómanda ljósi, vaki alla tíma til þín, og ad vér, fyrir trúna, høfum allan vorn føgnud í þér, þángad til vér, á þeim efsta degi, fáum ad sjá þig augliti til auglitis Þessa bidjum vér þig allir, guddómlegi Frelsari! sakir þinnar dýrmætu forþénustu! Fadir vor, ꝛc.

## Laugardags Morgun-bæn.

Miskunsami Gud! þú sem ert fadir yfir allt þad, sem børn kallast bædi á himni og jørdu; vér aumir og vesælir syndarar vidurkénnum audmjúklega á þessari morgunstundu, þína fødurlegu nád og hjálprædi, fyrir hvørt þú hefir allt til nálægrar stundar, veitt oss allt gott til lífs og sálar. Vér prísum þig, nádar-ríki Fadir! fyrir alla þvílíka þína óteljandi velgjørnínga, og bidjum

jum þig af hjarta: géf þú, ad vér aldrei gleymum þessum þínum ómetanlegu velgjörníngum, heldur med sífeldu þacklæti endurminnumst þeirra og vegsömum þig. Lát oss ætíd, o! vor Gud! framgánga fyrir þér, sem hlýdin börn í gudrækni og hjartans hreinskilni. Fyrirgéfdu oss, gódi Fadir! vér bidjum þig med tárum, fyrirgéfdu oss allar vorar syndir og mörgu misgjördir, sem vér höfum, ecki einúngis þessa viku, heldur og alla æfi vora, framid á móti þér, med hugrenníngum, ordum og verkum; burtkasta oss ecki þínum börnum, sem reida sig uppá þá dýrmætu forþénustu þíns elskulega sonar og vors bródurs Jesú. Í þínu nafni byrjum vér þennann dag; vertú med oss, og lát vorar athafnir vel luckast, þér til dýrdar, en oss til farsældar; á þér, Drottinn! er öll vor von, og því munum vér ecki til skammar verda. Blessa næríngu

vorq og atvinnu, svo vér ecki líðum skort á vorri daglegu naudþurft, og kát oss medtaka þínar gáfur med þackläti. Þócknist þér, gódi Fadir! ad láta oss tilfalla í dag, edur eudrarnær, kross edur mótläti, þá réttú oss þína hjálpar-hønd, svo vér ecki føllum; kénn oss ad yðka heilagt þolgædi, og hafa stødugá von á þér. Miskuna þig yfir alla þá, sem leita þín; bænheyr alla naudþreyngda og yfirgéfna, og send þeim hjálp og huggun; géf oss øllum þinn frid; í sérílagi géf þú oss þau hjørtu, sem þig heidri, elski og þér fulltreysti. Med sálu og lífi felum vér oss í þínar guddómlegu fødur-høndur; vertú vor heill og hjálprædi, vor adstod og ødsta hugsvølun. Bjód þínum heilögu englum, ad setja sitt vardhald í kríngum oss, svo vér, fríir frá øllu illu, séum í þiñi nádar geymslu, til vors lífs enda. Bænheyr oss, o vor Gud! fyrir þíns sonar Jesú skuld! **Fadir vor**, 2c.; Laung-

# Laugardags Qvøld-bæn.

Allrakjærasti Gud og Fadir! þín miskunsemi er svo mikil sem þú sjálfur ert, þad vidurkénnir vor sála, med hjartanlegu þacklæti, á þessari qvøldstundu; því einúngis fyrir þína miskunar hønd, høfum vér á þessum degi, og alla umlidna viku, frá øllum slisum, fári og ólucku verndadir ver-id. Miskunna þig framvegis yfir oss, gódi Fadir! eptir þinni óendanlegu gædsku; afmá allar vorar misgjørdir, og afsegdú oss ecki þína nád og hjástod. O! vor Gud! yfirgéfdú oss ecki, þínar barna-sképnur, í vorri neyd, fyrir sakir þíns hjartans sonar sárpínu og dauda. Æ! vor Frelsari og bródir Jesús! kom þú oss til hjálpar med þinni kroptugu fyrirbón og artnadarordi, og lát vor sorgfullu hjørtu þessi þín huggunar-ríku ord fá ad heyra: fridur sé med þér! Drottinn Gud heilagi andi! vertú vor frædari

og hjálpa oss í vorum breyskleika. O! þú háblessada þrenníng! lát oss undir þinni guddómlegri vernd og gætslu óhulta vera á þessari dymmu nóttu, fyrir øllu fári og skadsemdum lífs og sálar. Þinni forsjón og fødurkjærleika, vor Gud! felum vér einig sálir vorar og líkama, og allt þad þín nádar-hønd hefir oss gefid; vak þú, o Drottinn! yfir oss, svo hvílum vér óhræddir. Vér leggjum oss nú til svefns fulltrúa um, ad þú, gódi Fadir! sért med oss; bú þú í vorum hjørtum, svo vér ecki í svefninum gleymum þér, eda syndgum á móti þér. O þú heilaga þrenníng! vertu med oss í lífi og dauda, og lát oss, eptir aflidna myrkurin, fá ad sjá aptur dags ljósid, glada og heilbrygda, til þíns nafns æru og vegsemdar. Bænheyr oss, vor fadir! fyrir Jesú skuld! **Fadir vor,** &c.

---



# Adrar Viku-Bænir,

gjørdar af

Jóni Teitsyni,

fordum Biskupi Hóla-stiptis.

---

## Sunnudags Morgun-bæn.

O! þú mikli fadir ljósanna! sem lætur þessa heims náttúrlega ljós uppreña yfir oss; send þú í dag og alla tíma, þad saña ljós heimsins, Jesúm Krist, í vor hjortu, og lát hañ ljóma í þeim, svo hann megi útrýma þadan ollum fávitsku- og syndamyrkrum, til þess ad vér, o eilífi Gud! fáum þeckt þig í þínum syni, og odlast svo lyst og elsku til þín.

Sjá þú, hvørsu vér, fyrir syndina, liggjum fángnir og blindadir í hégómans myrkrum; þess vegna kén þú oss sjálfur, fyrir heilagan anda, af þínu ordi, hvørnig vér egum ad snúa oss til þín, og hlýdnast þér í trúnni, svo munum vér fyrst réttilega géta betrad oss, og snúid oss til þín med lofgjörd og þacklæti, þjónad þér í þínu ljósi, sem er þitt heilaga ord, og verid þér þócknanlegir. O! Herra Jesú, sól réttlætisins! uppreun fyrir oss, sem morgun-stjarna, eg skeinkt oss þad hjálprædi, án hvørs vér fáum einkis orkad, hvørt ed kénnar frá þér, fyrir þinn anda, er leidir oss í allan sannleika, svo ad bædi þessi og allir dagar æfi vorrar, mættu verda ad réttum Sabbats- og hvíldar-døgum sálna vorra í þér. Kénn þú oss ad uppvakna af vorum náttúrlegum andvaraleysis svefni, ad uppríſa frá daudum verkum, og yfirgéfa myrkranna samqvæmi, svo ad

ad þú, o Jesú! megir upplýsa oss. Þú ert ljómi dýrdarinnar; o! svo lát oss ecki lifa sjálfum oss, heldur þér, sem fyrir oss ert dáinn og upp aptur risinn! þú sanna ljós, sem upprunnid ert af hædum, uppreñ þú í voru hjarta og drottna þar yfir øllum þínum-óvinum, hvørja þú sjálfur hefir sigrad í þinni upprisu. O! þú gódi heilagi Andi! tilreid og helga vor hjørtu í dag, svo þau verda mættu þín musteri, í hvørjum þú megir sídan kénna og prédika allañ þeña dag. Helga þú alla vora þánka, hugskot og skilníngar-vit til ad medtaka og vardveita þitt ord, og án hræsni og yfirdrepskapar ad hlýda þér, í dag, alla þessa viku og alla vora lífdaga, í því ad framgánga í daglegri ydrun, trú og lífernis betrun. Hald þú sjálfur, o Gud! þiñ hvíldardag í oss, og verka í vorum hjørtum, ad vér kunnum ad helga þitt mikla nafn hér í tímanum, og sídan á þeim

B 5 óend-

endanlega Sabbats-degi. Fadir vor, rc.

## Sunnudags Qvøld-bæn.

Vegsemd og lofgjørd sé þér nú, o! þú heilagi Gud og Herra! sögd og í tje látin af oss øllum, fyrir hvörjum þú hefir látid, ecki einúngis þitt náttúrunnar og dags-ljós, heldur einnig nádarinnar ljós skína í dag, fyrir þitt ord og anda; þú hefir unnt oss svo mikillar nádar, bædi til lífs og sálar. O Gud! vardveit þú nú sjálfur í voru hjarta þad, sem þinn heilagur andi hefir plantad og vokvad í oss, fyrir þitt ord, ad vér megum bera mikinn ávøxt í þolinmædi til eilífs lífs. Fyrirgéf oss øllum þann holdsins og andans saurugleika, sem hefir hindrad oss frá ad lifa eptir þínum guddómlega og fullkomna vilja. Lát og ecki þann vonda og hatursfulla óvin hæfa oss, med sín-

sínum freistínga pílum á þessari nóttu, til ad syndga á móti þér, né ræna oss því góda, sem vér hofum, fyrir þína náð, síed og heyrt í dag. Hér ad auki vildir þú og af þinni miskun, vaka yfir ollu því, sem þú hefir géfid oss, eptir því ad vér, í vorri hjartans umvendun og trúnni til þíns elskulegá sonar, afhendum og felum þad allt í þína vardveitslu. Vertú í vorri sálu ljós í myrkrunum, vor kraptur í breyskleikanum, vor vardveitsla, vort líf og sáluhjálp. Vér innilykjum oss í þínu elskurika hjarta, o Herra Jesú! vorra sálna einasti Frelsari. Lát þinn vilja, sem er vor trú og ydran, vor helgan og sáluhjálp, stoduglega drottna yfir oss og vorum vilja, svo vér hlýdum og eptirfylgjum þér, og lát oss hugsa til þín í vorum draumum, og jafnvel í svefninum tala vid þig, vorrar sálar brúdguma. Minntú oss sjálfur á þad, sem vér hofum heyrt í dag

 fyrir

fyrir þinn anda, svo ad allir vorir þánkar, hugskot og skilníngar-vit, megi ætíd hugleida þig og horfa á þig, svo vor hjørtu megi ætíd vera þitt musteri, í hvørjum þú byggir med þínum fødur og heiløgum anda; þá mun þíns ljóss klára skin ecki einúngis hjá oss vera, heldur og í vorum hjørtum daglega heilagt haldid til þinnar dýrkunar og þjónustu, þú, sem ert og verda munt hér og sídar vorra sálna einasta hvíld og hjálpræði, fyrir styrk þíns heilaga Anda. Fadir vor, 2c.

## Mánudags Morgun-bæn.

O! þú heilagi Fadir! á þessa dags morgni ákøllum vér þig, í vors Frelsara Jesú Krists nafni, ad þú viljir uppbyrja í vorum hjørtum nýja nád, nýja blessun og nýja krapta, svo vér mættum uppfyllast af þínum heilaga anda, og hans nýju nád-

ar-

ar-gáfum, til ad þenkja, tala og gjöra eckért annad enn þad, sem vér vitum ad þér er þocknanlegt, og þú sjálfur verkar í oss. O! vor Gud! sameina þú vora þánka og girndir vid þig, fyrir Krists kjærleika, og hreinsa vora samvitsku med hans blódi; svo vér megum framgánga í dag í þinni heilagri hlýdni. Sjá þú, vor Gud! vér afhendum oss þér alla þessa viku, já, alla vora lífstíd; styrk oss med þínum krapti, leid oss med þiñi hendi, og al þú oñ fyrir oss med þiñi forsjón; gjör oss flærdarlausa í elskuñi, til ad þjóna þér og vörum náúnga. Þinn andi kénni oss ad strída mót afvegaleidslum vorra fordjörfudu hjartna, og vondra manna villum og hneixlunum. Lát þessarar veraldar hégóma verda oss alvarlega súrann og beiskañ, svo þú megir verda oss því sætari. Þú, sem leggur oss byrdi uppá, og hjálpar oss til ad bera hana, hjálpa oss ad bera

 þess-

þessarak viku byrdi med þínum
krapti, og leid þú oss, sem einn góð-
ur Fadir, og hjálpa oss ad fylgja þér,
eins og góð børn, og hlýda þér í ollu
því, er þú vilt vér skulum gjøra og
líða; bjód síðan þínum blessunum
ad hvílast yfir øllum vorum fyritæk-
jum og erfidi. Gáck þú undan oss
med þínum vísdómi, svo vér megum
þeckja og vita oss gánga á réttum
vegi, uppá þad vér séum, ecki ein-
úngis trúir og ástundunarsamir,
heldur einnig gladir og hughraustir
í voru embætti. Já! vertú sjálf-
ur í oss og í øllum vorum verkum,
upphaf, midpartur og endir, þér til
dýrdar og oss til velferdar! Fad-
ir vor, 2c.

## Mánudags Qvøld-bæn.

O! þú heilagi og réttláti Gud!
med því vor sálar-þørf og vel-
ferd útheimtir, ad vér snúum oss til
þín

þín med daglegri ydrun, og þannig á ný leitum þinnar nádar, án hvorrar vér kunnum ecki eitt augnablik ad lifa, enn sídur lifa í þinni vináttu; þess vegna bidjum vér þig, ad þú sjálfur viljir, fyrir þíns anda typtun og sannfæríngu, minna oss á allt þad, med hvorju vér hofum á þessum degi og endrarnær syndgad á móti þér, og svo vikid frá þínum bodordum. Lát oss nú í qvøld og ætíd, med þeim fortapada syni, aptur snúa til þín med sundurknosudu hjarta; en í vorri sálar-þreyngíngu og ángri, vitja þú vor ad fyrra bragdi, med þinni nád og húgsvølun, svo myrkur næturinnar, myrkur ángistar og mótlætis, myrkur daudans, ecki yfirfalli oss ótilreidda. Tak oss nú, o Gud! þín aumu børn, í þína heiløgu umsjón og varatekt, á móti øllum vorum óvinum, en sérdeilis þeim heimuglegu og verstu, sem eru syndugar fýsnir vorar og lyst-

lystíngar, og lát oss þacka þér af öllu hjarta fyrir þad, þú heftr enn á þessum degi vardveitt oss fyrir þeim, og hjálpad oss á móti þeim í voru kalli og embætti. Kénn þú oss ad skilja þad og yfirvega, hvörnig vér ómögulega, án þinnar vöku og vardveitslu, kunnum ad hvílast óhultir og skadlausir, og ad þú einn sért sá Israels vaktari, sem hvörki sefur né syfjar, og ert bædi gódgjarn og almáttugur til ad upplýsa og geyma oss þín börn, þegar vér felum þér, vor trúfasti Skapari! sálir vorar. Lát oss halda voru holdi í þinni typtun, hreinu frá allri syndarinnar lyst; lát oss, og allt hvad vort er vera í þinni guddómlegu vernd og gætslu. Géf oss ad hvílast rósamlega, og med gódum þankum og heilögum girndum aptur uppvakna, til eins klárs og gledilegs nádardags, í Jesú Kristi vorum Herra og Frelsara! Fadir vor, 2c.

## Þridjudags Morgun-bæn.

Trúfasti Gud og Fadir! þér sé nú og ætíd lof og vegsemd fyrir þína gædsku, ad þú hefir lofad oss í nótt ad hvílast undir skugga vængja þinna. Þessi gódgirni skal nú þess heldur, fyrir þína hjálp, bædi í dag og daglega hér eptir, uppvekja og skuldbinda oss til ad elska þig, og til þess, ad vér girnumst ecki ad lifa nema í þér, svo ad þann tíma, sem vér egum eptir ad lifa, megum vér lifa í þíns sonar trú, og ad hann megi vera vort ljós og líf. Vér felum oss nú á ný í þitt vald, þína nádar-leidslu og stjórnun, og bidjum þig: hreinsa og stjórna oss, svo ad Jesús vor Frelsari, megi fyrir trúna búa í voru hjarta, til ad verka trúarinnar ávexti í oss, sem eru: kjærleikurinn, vonin, audmýktin, hógværdin og þolinmædin. Kenn þú oss ad girnast enga vellystíngu, utan þína elsku; engann

engann ábata, utan þinnar nádar og dýrdar ríkdóm; enga vegsemd adra, enn ad heita og vera þín born, og þessa vegsemd getum vér odlast, þegar vér endurfædumst fyrir þitt ord, og endurnýjumst daglega eptir þinni mind. Lát oss ecki vera hugsjúka fyrir þvi stundlega, því þú hefir-lofad, ad taka ecki þína hond frá oss, né yfirgéfa oss. Helga þú og blessa í dag verkin vorra handa, og allra þeirra, sem leita þín med bæn og ydrun; já! útbreid þína miskun yfir alla menn, og frelsa þá frá allri fordjorfun og ólucku, einkanlega þá, sem villtir fara. Sérílagi felum vér þér og þinni nádugu stjórnun, sjálfa oss og alla vora, samt andlegt og veraldlegt Yfirvald, ad vér megum undir því lifa gódu og rósomu líferni, í allri gudrækni og sidsemi. Miskunna þig yfir almennilega eymd og bágindi í ollum stéttum, og gjor enda á allri vondsku og hneixlunum, sem

sem heimurinn er fullur af; hjálpa og øllum naudstøddum, og vertú oss øllum nádugur, fyrir Jesú skuld! Fadir vor, ꝛc.

## Þridjudags Qvøld-bæn.

Jafnvel þótt vér ecki megnum nógsamlega né sem verdugt er, ad vidurkénna þína gódgirni, o! vor himneski Fadir! sem vér ecki einúngis í dag, heldur og alla æfi vora, høfum þégid af þér, þú, sem látid hefir og lætur oss eñ þá lifa, vera og hrærast í sjálfum þér; samt bidjum vér þig: ad þú vildir þó í nád medtaka vort audmjúkt og audvirdilegt þacklæti, og þaradauki leggja þad til þinna óteljandi fødurlegu velgjørnínga, ad álíta í Kristi Jesú nádarsamlega þetta vort lofgjørdar offur. Sérílagi þøckum vér þér fyrir þad, ad þú hefir og á þessumdegi, ad nockru leiti typtad og audmýkt oss, fyrir

þitt

þitt orð og heilagann anda, til að draga vorar sálir frá þessum heimi. Þú leggur oss byrdi uppá, en hjálpar oss til ad bera hana, og léttir einum þúnga af oss eptir annann, svo vér med þacklæti vidurkénnum, ad vér höfum einn Gud, sem hjálpar, og einn Drottinn, sem frá daudanum frelsar; þú hefir þolinmædi vid vorn breyskleika, og stjórnar oss med mikilli miskun og vorkunsemi; lát oss því aldrei forsóma og forakta, misbrúka edur burtkasta med þverúd, þessari þinni födurlegu náð og gædsku, heldur géf oss hreint hjarta, og skapa í oss nýjañ og vissañ anda; kasta oss ecki burt frá þinu augliti, og tak ecki þinn heilaga anda frá oss. Prófa þú oss sjálfur og reyn vort sinnislag til þín; já, lát oss dáglega taka framförum í vísdómi og dygd, og vidrétt þú sjálfur í oss, allt hvad híngad til er af oss forsómad. Tak oss nú í qvöld í þinn frid og sátt, fyr-

ir

ir Jesúm Krist, og géf oss ad hafa vissa og stoduga trú um þad, þú bædi viljir og kunnir ad vardveita og frelsa oss frá ollu illu. Bú þú í oss og hjá oss, svo mun engin makt, engin flærd óvina vorra géta grandad oss. Miskuna þig yfir oll þín born, og yfir oll þín handa-verk, er þú hefir géfid oss til nytsemdar, og lát þína blessun gjora oss þau blessud og farsæl; og á morgun virdstú ad uppljúka vorum hjortum og munni, til ad lofa þig hér fyrir, og sídan ad gánga fram í þínum krapti, allt til þess, ad qvold vors lífs kémur, og þinn eilífi dagur uppreñur, sá ed engin umskipti hefir ljóss og myrkurs. Fadir vor, 2c.

## Midvikudags Morgun-bæn.

Til þín, o! himneski Fadir! snúum vér nú vorum fyrstu þaunkum, og upplyptum vorum hjortum til þín, med þeirri bæn og andvorp-

un, ad vér megum nú í dag lifa, vera og hrærast í sjálfum þér. Vertú nú framvegis vor borg og sterkur kastali, eins og þú hefir trúlega verid það og vakad yfir oss á þessari nóttu, hvar fyrir allt vort sinni og kraptar vegsama þig. Vakta þú framvegis á þessum degi vora limu og skilníngar-vit, en einkum vor hjørtu, svo vér ecki syndgum á móti þér. Veit oss daglega ad gjøra ydrun og apturhvarf fyrir vorar syndir og saurugleika. Lát oss í dag þenkja, tala og gjøra það einúngis, sem þér vel þócknast, og eckért annad; lát oss ecki lifa sjálfum oss, heldur í Guds sonar trú, og elsku til náúngans. En þar ed þú, o Herra! kallar þitt nafn fastann kastala, svo skundum vér þángad med øllum þeim, sem þú gjørir réttláta, af þíns sonar Jesú Krists trú; í honum afhendum vér og fórnfærum þér oss sjálfa, og allt það þú hefir géfid oss, og ásamt med

oss

oss alla þá, sem eru limir á hans lík-
ama, hvørt sem þeir eru fjær eda
nær, uppá þad vér allirsamann
meginn vera og verda þín æfinleg
eign og eilífur eginndómur, og í
einíngu andans tilbidja þig. Lát
þinn anda, allann þenna dag, typta
og vegvísa oss, og leida oss í allann
sannleika, svó vér ecki villt förum,
heldur áfram höldum á vegi þinna
bodorda, og lát engann hlut fá skilid
oss vid þig. Blessa oss med öllu
því, er þér þócknast, og géf oss vís-
dóm, vilja og krapt til ad framfylgja
þeirri köllun, í hvörja þú hefir oss
setta, til ad þjóna þér þar iñi og vor-
um náúnga. O vor Gud! keñ oss ad
feta vors Frelsara fótspor og fylgja
honum trúlega. Vardveit oss frá
öllum vondum mönnum, og lát þá
hvorki skada oss né í villu leida. Lát
oss krossfesta vort hold med þess
girndum og tilhnegíngum, svo vér
séum vissir um þad, vér séum þínir,
hvort

hvort sem vér lifum eda deyjum. Pínir englar leidi oss á vorum vegum, og fylki sér í kríngum oss, og þinn andi vísi oss þann rétta veg til sælufullrar eilífdar! Fadir vor, rc.

## Midvikudags Qvöld-bæn.

O Gud, og vor himneski Fadir! virdstú nú ad samansafna öllu voru megni, hugskoti og skilníngarvitum til þín, svo sem þeirrar réttu hefud uppsprettu til lífsins, og allrar andlegrar og tímanlegrar blessunar, svo vér kunnum verduglega ad þacka þér, fyrir Jesúm Krist þinn son, í hvorjum þú hefir í dag blessad oss, med öllum himneskum og tímanlegum naudsynlegum gædum, já, géfid oss alla góda hluti med honum; fyrir hvorn þú hefir svo öldúngis födurlega nádad oss, og stadid hjá oss á þessum degi. Í hans trú og trausti felum vér einnig nú í nótt, í

þína

þína nádugu og alvísu ráðstofun, vort líf, vora krapta og allt hvad vort er; já, vér flýjum undan øllum vorum óvinum til þín, og felum oss í þínu fødurlega og elskuríka hjarta, þar, og hvørgi annarstadar, skulu vorar sálir ánægju, frid og unadsemd hafa, af því, ad enginn hlutur á himni eda jørdu, kann ad fullnægja oss annar enn þú. Verka þú nú einúngis í vøru sinni og huga, svo ad enginn annar kraptur hindri oss frá þínum vilja, og ad eckért íllt eda skadlegt nálægi sig til vor. Umgird þú þín musteri, sem eru vor hjørtu, med þínum logandi hestum og vøgnum, svo sem med rambyggilegum múrvegg, líka sem þú gjørdir vid Spámanninn fordum, svo munum vér sofa rósamlega, og vera ánægdir med allt þad, sem þú lætur fram vid oss koma; því vér erum einusinni ordnir þinn eginndómur, og þinn sonur hefir dýru verdi keypt oss, uppá þad, ad hvørt

vér vøkum eda sofum, lifum eda deyjum, séum vér þó þínir, og ad enginn hlutur fái oss slitid úr þinni hendi, heldur ad vér mættum ætíd med honum lifa. Þess vegna lifum, sofum og hvílumst vér, ecki oss sjálfum, heldur þér, o Herra! þad sama framqvæm þú nú og ætíd í oss, fyrir Jesúm Krist í heiløgum anda! Fadir vor, 2c.

## Fimtudags Morgun-bæn.

Blessi oss nú og framvegis fødursins eilífi kjærleiki, fyrir Jesú Krists forþénustu í krapti heilags anda! lof og þackir séu þér, þríeini Gud! fyrir þína stadføstu verndun, nád og hugsvølun; og því skyldum vér ecki ætíd af øllu hjarta trúa þér fyrir oss? þér, sem hefir géfid oss svo óteljandi rokssemdir uppá þína trúfesti? vér felum oss þess vegna, med øllum rétti, á þessum degi, þínu valdi

og vilja, med øllu því, er þú hefir sett oss til ad vera rádsmenn yfir í þessum heimi, ad þú vildir sjálfur vera upphaf og endir á øllu því, er vér tøkum oss fyrir hendur í dag, og látir þad allt luckast, þér til dýrdar og vorum náúnga til þjónkunar. Þar á móti bidjum vér: ad þú vildir snúa frá oss øllum ógudlegum girndum, ásamt allri makt vondra manna, svo þeir eckért megni á móti oss; stil þú sjálfur þá til frids vid oss, eins og Esaú og Jakob, sem án orsaka vilja hata oss edur illt gjøra, hvad þú vissulega veitir oss, ef vorir vegir þócknast þér, og vér látum ecki hid vonda yfirstíga oss, heldur yfirvinnum þad vonda med gódu. Séf oss, svo sem þinnar nádar hlýdnum verkfærum, ad erfida trúlega í þínum víngardi. Lát eckért holdlegt andvaraleysi eda hræsni inntaka vor hjørtu. Séf oss gladt sinni, í heilagri samstemmu vid þinn vilja, og

 hald

hald þú þinni elsku stadfastlega yfir oss, svo þín nádar-sól fyrir oss aldrei undirgángi, heldur stjórna oss frá upphafi til enda til allra gódra verka, í Kristi Jesú vorum Frelsara! Fadir vor, rc.

## Fimtudags Qvøld-bæn.

Hvort egum vér nú ad snúa oss annarstadar enn til þín, o! þú vort lífsins ljós! þar ed myrkrid er yfirfallid, og háskinn þess heldur nálægist oss? uppljúk nú fyrir oss þinn milda og nádarríka hjarta, og géf oss nád til ad þacka þér fyrir þad, ad þú ecki einúngis hefir unt oss þessa umlidins dags ljóss, heldur og géfid oss ad gánga í þínu nádar-ljósi, fyrir þitt ord og anda. Unn oss nú einnig á þessari nóttu ad hvílast undir þinni varatekt, sem er vorra sálna óhultr fríkstadur móti árásum vorra óvina og heimsins gilúnga; vor hugsvalan í øll-

köllum mótgángi, vort líf í dandan-
umr. Í því trausti viljum vér nú
leggja oss til hvíldar, uppá það vor
svefn megi verda oss til blessunar og
nytsemdar. Hindra þú sjálfur, gódi
Fadir! med þínu almætti, alla makt
og vjel vorra óvina, svo þeir ecki
snerti eda skadi oss, og sundurbrjót
allar pílur þeirra, med hverjum
þeir, á þessari nóttu, kunna ad vilja
hitta oss. Leyf ecki holdinu ad freista
vor med voudum lystíngum, heldur
vardveit þú oss hreina og óflekada
í helgun og heidri; þar ámóti virdstu
ad qveikja ljós þinnar þeckíngar,
þinnar nádar, þíns kjærleika í vorri
sálu, svo mun hún, jafnvel þó líkam-
inn sofi, hafa alla sína unadsemd í
því ad vera hjá þér, og umgángast
med þér, þú, sem ert vort ljós og hjálp-
rædi. Svo nidurbyrgjum vér oss nú
í afgrunni þinnar miskunar, full-
öruggir um þína vardveitslu, og
kjósum nú einúngis ad mega hvíla



undir skugga vængja þinna, med öll-
um vorum vinnum og limum þinnar
sonnu kirkju, vid hvorja þú, eins og
á sjálfum oss, vildir mikla og marg-
falda þína miskunsemi, svo ad líka
sem vér tolum um þig, þegar vér
leggjum oss til sængur, svo mættum
vér uppvaknadir vera hjá þér, til ad
kunngjora þína miskun ad morgni
dags, og sídan í þínu himneska ríki.
Fadir vor, rc.

## Föstudags Morgun-bæn.

O! þú sanni og lifandi Gud, vor
skapari! vor augu skulu á þess-
ari morgun-stundu upplíta til þín,
og í þínu ljósi, sem er þitt heilaga ord,
leita þín, þú sanna eilífa ljós! í
hvorju eckért myrkur er, þú, sem
sjálfur ert oss nálægri enn vér sjálf-
ir erum. Þú allrar blessunar lif-
andi uppspretta! eins og hingad til
er skéd, svo uppausum vér af þér
siami-

framvegis allt hvad vér vidþurfum, til lífs og sálar. Vér segjum þér lof og þackir af øllum mætti vorum, fyrir þína fødurlegu vernd og varatekt yfir oss, á þessari umlidinni nóttu. Medtak þú nú aptur í stadinn, fyrir vorn ædsta kénnimann, Jesúm Krist, vort auma og óverduga hjarta, eins og þægilegt morgun offur, og úthell í þad þínum kjærleika fyrir heilagann anda; svo skulum vér allann þenna dag framgánga í þeim sama þínum kjærleika, og lát hann ecki einúngis minna oss á, heldur einnig hjálpa oss til ad vardveita þín bodord. Þér er þad ecki ókunnugt, ad vér getum ecki, já, ecki eitt augnablik stadist án þín; þess vegna samteng þú vorn vilja vid sjálfann þig, svo ad enginn hlutur í oss né á oss hreifist eda hræríst án þíns vilja, miklu sídur, ad vér gjørum edur adhøfumst annad enn þad, til hvørs þú sjálfur stjórnar og stýrir

oss; en það, sem oss kañ yfir að sjást í dag, vildir þú sjálfur upprétta og bæta, fyrir þiñ fullkomna kjærleika og hjálp, svo vér án afláts holdum áfram í daglegri ydrun og endurnýjúngu, eins og þú sjálfur krefur af oss. Vér afneitum öllu því, sem þér misþóknast, og þarámót afhendum oss sjálfa, með öllu því, sem vort er, í þitt vald og vilja; þú munt gjöra vel við oss í öllum hlutum, og um síðir hjálpa oss ígégnum þessa heims mæðu, neyð og hörmúng inn í þitt eilífa dýrdar-ríki, til að lofa og vegsama þig þar óaflátanlega. Faðir vor, 2c.

## Festudags Qvøld-bæn.

Nú er qvøldið komið og myrkrið er yfir oss fallið, o! vor elskulegi góði Guð og Faðir! og vér erum allt of vanmáttugir til að varðveita oss sjálfir, því án þinnar hjálpar erum

um vér eckért; þess vegna virdstú ad styrkja oss fyrir krapt trúariñar, til þad færa þér qvöld-offur vorra vara, fyrir alla velgjörnínga, þolinmædi og hjástod oss veitta í dag, og ad bidja þig, ad þú vildir nú í nótt, standa á móti makt allra vorra óvína, sem med vjelum eda valdi kynnu ad vilja skada oss. Og þar ed myrkrid hefir nú hulid fyrir oss þetta útvortis náttúruñar ljós, svo virdstú þess heldur ad ljóma og lýsa í oss iñvortis med þínu nádar-ljósi, svo ad vér í öllum vorum veikleika og áliggjandi neyd og þörf, megum ætíd leita og finna rád, hugguñ og hjálp hjá þér, fødur allrar miskunsemi og Gudi allrar huggunar. Snú þú til þín vorum hjörtum og hugskotum, ad vér ecki villt förum; og ef vér höfum vikid frá þér í dag, þá lát þína heilsusamlegu typtandi nád kalla oss aptur til þín, og leida oss á réttañ veg. Styrk og hjálpa oss á

 móti

móti öllu vondu, svo vér megum lifa þér til lofs og þjónustu, þá viljum vér hrósa oss í þér, og eckért gott þacka sjálfum oss, af því vér megnum eckért án þín, heldur géfa þér dýrdina. Þetta vildir þú sjálfur kénna oss, og þar med stjórna öllum þínum rétttrúudum börnum; já, láta allañ þiñ sofnud í þessum heimi vera þér faliñ, svo þú hjálpir sérhvörjum med þolinmædi ad yfirviña allt þad, sem þú hefir honum uppálagt af krossi og mótgángi ad bera, iñ til þess ad allir hlutir fullkomnast, og þú sjálfur verdur allt í öllum, þegar vér erum komnir til þeirrar eilífu hvíldar í Kristi Jesú, sem er ordiñ vor fridur og endurlausn. **Fadir vor, rc.**

## Laugardags Morgun-bæn.

Abba, elskulegi Fadir! hjálpa þú, ad vér, á þessari morgun-stundu og alla tíma, megum tilbidja þig í

anda

anda og sannleika, og eckért annað girnast, enn það, sem er þinn vilji. Upplýs oss með þínum heilaga anda, svo vér þeckjum þína voku og varatekt yfir oss á þessari nóttu, og hreinsa vorar samvitskur af dauðlegum verkum, svo vér í dag og ætíð kunnum að þjóna þér, þeim lifanda Gudi, í þínum syni Jesú Kristi. Géf að vér engañ hlut þenkjum og fyrir oss tökum utan það, sem er þiñ vilji og þér velþócknast. Sjá! vér erum þínir, og þú hefir géfið oss þinn son til ydrunar og umvendunar; hvorja þú daglega vildir verka og ávarta í oss, fyrir þiñ heilaga anda, svo vér, með allri moguleari kostgjæfni, stríðum og stoðum á móti því vonda; já, látum sjá það, að það sé vor alvara, að uppbyggja og ebla vorn kristiñdóm. Afvend frá oss ollum ónytju orðum og verkum og allri hneixlun, sem saurga kañ vorar eður aññara sálir. Vertú sjálfur

 fyr-

fyrir þinn anda, dómari yfir vórū hjarta, huga og þaunkum; vardveit einúngis vora fætur, svo þeir ecki gángi á forbodna vegu, ecki heldur stadnæmist á vegum syndugra; vor augu, ad þau líti ecki eptir hégómanum, og vorar hendur, ad þær eckért íllt adhafist; því þú veitst, gódi Fadir! hvørsu margir óvinir standa allt í kríngum vora sálu, til ad leida hana afvega, og hvørsu hægt þad er ad saurga og fella hana. O Herra! þad skal vera þitt eptirlæti, ad þú hjálpir oss, svo vorir fætur skridni ecki, og vor trú skal hugdreysta sig vid þad, ad vér munum æfinlega halda oss fast vid þig, og aldrei frá þér víkja. Vér skulum og kuñgjøra ødrum þín dásemdar-verk, hvørja vér bidjum, ad þú eiñig vildir draga til þín og leida í þínum kjærleika, fyrir þíns sonar forþénustu. Fadir vor, rc.

## Laugardags Qvøld-bæn.

Svo veri þér nú, o! vor elſkulegi Fadir á himnum! dýrd og æra og vegſemd tillogd fyrir þad, ad þú hefir ſvo nádarſamlega leidt oſs hingad til, og látid oſs fullenda þeña dag, eins og alla þeſſa viku. Vér vidurkénnum þér til dýrdar, ad vér ecki hefdum hingad til kuñad ad lifa, eñ ſídur lifad med gledi, ró og fridi, og allra ſíſt án glæpa og laſta, hefdi þín tilſjón og adgætni ecki vardveitt vorn anda og vorar ſálir, ſvo þær ecki ſyndgudu vísvitandi á móti þér. Svo værum vér þá allra maña fá-víſaſtir ef vér nú framvegis, og eink-um á þeſſari nóttu, ecki vildum fela oſs og trúa fyrir oſs þvílíkum al-máttugum Gudi og elſkulegum fød-ur. O! vor Gud og vor Fadir! drag

nú allt hvad í oss er eptir þér og til þín, ad vér megum vera í þér og þú í oss. Lát oss hugsa til þíns nafns, þá vér leggjum oss til sængur, og þá vér uppvöknum tala um þig. Lát ecki vora líkami sofa, og ecki vor augu apturlykjast, fyrri enn vér finnum þig lifandi ad búa og verka í oss, svo vér ecki, án þín, vogum ad trúa fyrir oss svefninum, sem er daudans bródir, né myrkrinu, sem er grafarinnar ímind. Hneig þú vort hjarta, fyrir sanna umvendun, til þín; lát þína elsku í oss vera sterkari enn daudann, já, sterkari enn alla hluti í heiminum, svo ad vér, fyrir þig, gétum allt þad yfirunnid, sem oss kann ad áreita, hvínga edur ónáda; legg þú þína vinstri hönd undir vort höfud, og

þín

þín hægri hønd umfadmi oss. Gef vorri sálu og líkama ad hvílast hægt og rósamlega, eptir þinni óverdskuldadri miskun, sem oss er betri enn lífid. Uppljúk fyrir oss þínu nádar og miskunar skauti, og skýl oss í þinni tjaldbúd á þeirri vondu tíd; já, þegar vor óvinur sýnist ad vera oss nærstur, svo vertú oss enn þá nálægari, og lát oss þá sjá og reyna, ad þú sért sá Israels vaktari, sem hvorki sefur né syfjar; einkum lát oss í móti hans umsátrum kroptuglega verndada, og í þínum høndum, o Herra Jesú! teiknada vera, svo enginn hlutur fái skilid oss vid þig. Lát oss aldrei falla frá þér í nockurt holdlegt andvaraleysi, heldur vek þú upp vorn anda; svo hann ætíd

and-

andvarpi til þín, og jafnvel í svefninum áhángi þér fastlega; svo megnar enginn hlutur ad adskilja þad, er þinn andi hefir samtengt, sem er, þig frá oss eda oss frá þér, því vér skulum hédanaf ecki sleppa þér, fyrr enn þú blessar oss med eilífri blessun, og alla þá, er þig um þad sama bidja. Hér um bænheyr oss, gódi Fadir! fyrir Jesú skuld! Fadir vor, 2c.

---

# Viku-Psálmar,

ortir af

Þorvaldi Magnússyni.

## Sunnudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Heimili vort og húsin med.

Lof, æra, prís og þock sé þér, Þú mildi Gud og Fadir! Sem hefir audsýnt miskun mér, Mig í nótt svo verndadir, Hér med unntir mér heilbrygdum Hvíldar, í nætur-myrkrunum, Hoţds kraptar hressast gladir.

2. Eins og sjáaldur augna hér Einn kann vel geyma sinna, Skýldir þú, gódi Skapari! mér Í skugga vængja þinna; Veittir mér svo med fögnud fá Fagurt dags ljósid aptur sjá, Helg Sabbats-verk ad vinna.

3. Drottinn Gud! þínar dásemder Daglega því eg prísa, Og volduga náð, sem

veittir mér, Vil eg jafnan auglýsa; Frá lífi minnar módur, þú Mig hefir geymt, og hér til nú Veg þinn mér gjördir vísa.

4. O Gud! framvegis eg bid þig: Audsýn mér gædsku þína, Aumasmanns eskju állt mig, Illsku fyrirgef mína; Trúfasti Gud! eg treysti þér, Tak ecki þína hond frá mér Þá allt vill annad dvína.

5. Minst á syndlausa soninn þinn, Saklaus þá leid hann pínu, Fyrir brot oll og breiskleik minn, Blódi úthellti sínu; Vegna þess, Fadir! væg þú mér Vesælum, ei burtkasta hér J frá augliti þínu.

6. Heldur inntak mig enn í dag J skaut miskunarinnar, Annastú svo minn allann hag, Eptir vild gædsku þinnar; Lát enga neyd né nockurt slis Nálægjast til míns heimilis, Sértu vernd sálar minnar.

7. J þínar hendur eg mig fel, O! hjartans Fadir kjæri! Mun eg þar hugg-ast mjúkt og vel, Mein þó ad hondum bæri. Þú ert minn Gud! en eg þitt barn, Aumum vertú mér líknargjarn, Nád þín mig endurnæri.

8. O! Gud minn Herra! eg bid þig, Er mig vilt hólpinn gjora: Innsiglad-

ann

ann lát ætíð mig Í þínum höndum vera, Hér eptir allt til eilífðar, Að eg, blessaður, mætti þar Frið og fögnuð uppskera.

9. Mig geymi' í dag þín miskun blíð, Mína farsæli vegi, Einkum á minni andláts tíð Og hinum stránga degi, Þá Drottinn alla dæmir þjóð, Fyrir dýrmætt Jesú hjarta-blóð, Sæl að eg glatist eigi!

## Sunnudags Qvöld-psálmur.

Lagið er: Mit hjarta hvar til hryggist þú.

Hærstur Guð Faðir himnum á, Herra míns lífs og Drottinn, sá Ríkir allsráðandi! Öll þín verk, sem á oss ske Eru þau náð og sannleike.

2. Þú hefir mínum heilsu hag Haldið við lífið þennann dag, Og allt gott auðsýnder, Og fyrir illu forðað mér; Faðir himneskur, lof sé þér!

3. Fyrir þinn krapt og mikla mátt Minn þú verndaðir andardrátt; Lofi þig munnur minn! Önd mín og túnga sérhvert sinn Sýngi og prísi almátt þinn!

4. Framvegis hjálpa, Faðir! mér, Fyrir þitt nafn, sem eilíft er; Ert þú einn efalaust Ísraels huggun hjálp og traust, Heyrðu nú mína bænar-raust. 5.

5. Afmá þú mína misgjörd því, Minn Guð! sem aðra þoku' og ský; Hreinsa samvitsku sár, Svo hún verði af syndum klár, Sonar þíns fyrir blóð og tár.

6. Umsjón þín vaki yfir mér, Eilífur Guð! eg treysti þér Og bið af auðmýkt þig: Sjá þú! nóttin nálægir sig, Nú er þar dymmt í kríngum mig.

7. O þú, mitt sæla andar-skjól! O! þú, mitt ljós! mín fagra sól! Sem alla upplýser, Undirgáektu nú ei hjá mér, Allt mitt hjarta svo tak að þér.

8. Set þá eldlegu engla vakt Allt um kríng mig, svo hvíl' eg spakt, þeirra veriið voldug sé A mínu lífi, æru' og fé, Eckert vondt svo mig kunni' að ské.

9. Veittu nú sæta svefn-ró mér, Sál' mína, Drottinn! fel eg þér, Öll mín von einu ert þú; Í þínu nafni' og traustri trú Til minnar hvíldar leggst eg nú.

10. Skýli mér vængja-skjólið þitt, Skuggi þeirra sé athvarf mitt; Taktu enn æ að þér Sál' mína, líf og allt hvað er Af þinni mildi gefið mér.

11. Lát mig, að nátúr líðnum blund, Lofa þitt nafn um morgun-stund; Verði þinn vilji' á mér, Fyrir þíns sonar fórn, sem er Til friðþægíngar offruð þér. Mánu-

## Mánudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Heidrum vier Gud af hug' og sál.

Gædskurlkasti Gud minn kjær! Gledur sig dagsins ljómi skjær; Eg kem nú gladur á þinn fund, Um þessa gódu morgun-stund, Fallandi nidur flatur þar Fyrir skor þinnar hátignar, Med lotníng' stærstu lofgjördar.

2. Nú hefir vel þín nád umskipt, Næturmyrkrunum frá mér svipt; Og svo látid mig, aumann mann, Upp aptur rísa heilbrygdann. O! hjartans Fadir! hondin þín Hefir enn verid skjaldborg mín, Med guddóms nádar geymslu sín.

3. Satan hefir med sinni makt Sínar snörur forgéfins lagt; Geymdi mig Drottins gædskan hrein, Granda ei kunni nockurt mein; Munnur og túnga miklar þig, Mín sál'a þér nú gledur sig, Sem svo vel hefir verndad mig.

4. Framár bid eg þig, Fadir kjær! Fyrirgéf þú mér syndir þær, Sem úngur og gamall eg hef' drygt; Angrar mig nú af hjarta slíkt, Minnstú ei þeirra, minn Gud! nú Miskunsemd þinni til mín snú, Veikann mig styrki vonin sú.

5. Lát þína engla enn í dag Annast minn lífs og sálar hag, Vegum mínum svo verði' eg á, Verndadur ollum háska frá; Hvörad eg fel í þína hönd, Þú minn Skapari! líf og önd, Mýk þú vor allra mein og grönd.

6. Geymi mig blessud gædskan þín, Gef þú, ei nálgist allt til mín; Vertú mitt skjól og skjöldur trúr, Skjaldborg, verja og hlífdar-múr, Blessi nú inn og útgáng minn Almættis dýrdar kraptur þinn, Þennann morgun og sérhvört sinn.

7. Harmandi alla huggа þú, Heil-brygdi gef þeim sjúku nú, Naudstoddum sérhú voldug vorn, Vernda þú, Gud! þín freistud born, Og ef mótlætis eitt-hvört ský Yfir mig kæmi heimi í, Styrk þú minn krapt í strídi því.

8. Astríki Fadir! enn í dag Allt mitt blessa þú vinnulag, Eirfidis mædu alls-háttar, Einnig verk minnar kollunar, Til ónýtis svo ei þad sé, En þér til dýrd-ar mætti ské. Blídi Fadir þad bænheyre!

9. Lát mína sálu þenkja um þig, Í þínu ordi gledja sig, Í mínu hjarta halda þér, Og hafa þinn ótta fyrir mér, Kristilega ad lifa nú Lika deyja í

samri

sannri trú; Fyrir blóð Jesú það bæn-
heyr þú!

## Mánudags Qvöld-sálmur.

Lagið er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Enn er dags-tídin útendud, Elskuríkasti Fadir og Gud! A hverjum ástar augun Þin Enn hafa litid hýrt til mín, Og nádar forsjón födurlig Frá öllum háska verndad mig.

2. Hjartanlega eg þacka það Þér, sem hefir mig bevarad; Grátbæni eg af audmýkt Þig, J Jesú nafni bænheyr mig, Gódi Fadir! og gef mér qvitt Glæpugt synda liferníd mitt.

3. Med hverju, æ! það ángrar mig! Ad í dag hefi módgad þig J öllum mínum athöfnum, Ordum, gjördum og hugsunum. Drottinn! mín synd ei dylst fyrir Þér, Drottinn! syndugum væg þú mér.

4. O! hjartans Fadir! minnstú míns Medalgángara, sonar þíns, Og lausnar-gjalds, sem lét fyrir mig, Ljúfi Fadir! ad blídka þig, Vegna Jesú verdskuld-unar Væg þú mér, brunnur gædskunnar!

5. Likn-

5. Líknsami Fadir! lít til mín, Ligg eg ber fyrir augum þín, Hrædt og skjálfandi hjartad er, Herra! syndugum líkna mér, Minna glæpa ei minnstu nú, Miskunar auga til mín snú.

6. Lát þína hlífd og gædsku gnótt Gæta mín vel um þessa nótt; Líkama, sál' og lífid mitt Legg eg nú, Gud! á valdid þitt, Frá óvinum og íllum heim, Alla mína og mig þú geym.

7. Lát enga plágu, eymd né sótt Yfir mig koma þessa nótt; Vertú hjá oss, vort hjálpræde! Þinn hlífdar vængja skuggi sé Athvarf mitt, skjól og einka traust; Eg mun þá sofa hættulaust.

8. Sórgmæddra hjortu harmþrúngin Hugga þú sjálfur, Jesú minn! Þinn sterki kraptur stydji þá, Sem strídir nockur freistíng á: Þinna útvaldra alla hjord, Annast og geym þú hér á jord.

9. Nú fer venjuleg hvíld í hond, Herra! þér fel eg líf og ond, Þín engla fylkíng elskulig Enn í nótt geymi og veki mig Drottni til lofs, þá dagurinn skín, Drottni sé lof fyrir verkin sín.

Þrid.

## Þridjudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Einn Herra eg best ætti.

Allra elskulegasti Endurlausnari minn, Kjær Herra Jesú Kristi! Krapt vil eg prísa þinn, Mig til dags-ljósmans leiddir; Lof og heidur sé þér! Myrkrunum aptur eyddir, Þau urdu' ad sleppa mér.

2. Minn Gud! af gædsku þinni, Geymdir mig þessa nótt A lífi, sál' og sinni, Svo mér er vært og rótt, Leitir svo lífi mínu Lucku og fridar hag, Ut af almætti þínu, Allt fram á þennann dag.

3. O Jesú ástúdlegi! Þitt elsku-hjartad ber A hvorjum einum degi Umsorgun fyrir mér, Og mig svo yfirskyggir Af þinni miklu náð, Hvad sem mitt hjarta hryggir, Huggar sig ønd mín þjáð.

4. Eg kann í engann máta, ástríki Frelsari! Þacklæti þad fram láta, Sem þér sé bjódandi, Þú, gædskan þúsundfalda! Sem þar fyrir verdugt er, Edur ad endurgjalda Allt gott, sem veitir mér.

5. Oll mín verk, eg medkenni, Aum og vesøl mannkind, Eru í augsýn þinni Eintómt ránglæti' og synd; En þú, sem brot mín bættir Og barst vorar misgjørder.

Sidan vid Fodurinn sættir, Syndugum bid fyrir mer.

6. Er mer gjørdir útvega Ást, vid Gud Fodur Þinn, Láttú Þín tár og trega, Trúfasti Jesú minn! Ávaxtarlaus ei vera Á mer nú syndugum, Heldur mig hólpinn gjøra Og hreinann af illverkum.

7. Fyrir Þinn ástar anda, J dag mer stjórna þú, Lát mig stødugann standa J sterkri von og trú, Frá vondum vjela-heimi Verndi mig nád þín skjær, Hún mig hættulaust geymi, Hún se mer ætid nær.

8. Eg besel umsjón Þinni Allann mig Þennann dag, Líkama, sál' og sinni, Sjá þú best um minn hag; Virdstú og vel framleida Verk minnar køllunar, Og embættis ómak greida Allt mer til farsældar.

9. Gud! af nægd gædskir Þinar, Gef þú mer deildann verd, Umhyggju andar minnar Eg fel Þer her á jørd, Sæ eg þá fyrr' og sidar Fullnægju alla vel; Þer gjøri eg Þackir Þýdar, Þú, minn Immanuel!

## Þridjudags Qvøld-psálmur.

Lagid er: Allt eins og blómstrid eina.

Hvørnig kann eg, sem ætti, Almátt ad prísa Þinn, Af innsta andarþrætti, O!

Herra Jesú minn! Er í dag enn þá hefir Ætid bevarad mig, Þú, sem allt gott mér géfur, Gud minn! eg lofa þig.

2. Undir verndar-vœng þínum Voktun hafdir á mér, Svo eg med ollum mínum, Og allt hvad mér tilheyrer, Er frí af ollum voda; Enn framar bid eg þig: Med sterk-um armlegg adstoda, Stydja og leida mig.

3. Húmar og hallar degi, Hvíldar-tíd komin er, Láttú þó, o Gud! eigi Undir-gánga hjá mér, Mildasti minn Frelsari! Miskunar þinnar sól, Svo lengi, sem eg hjari; Sértú mitt ljós og skjól.

4. Minnstú ei synda minna, Med hvor-jum styggt þig hef, Ut af nœgd nádar þinn-ar, Ná mér þœr fyrirgéf; Veittú mér, eg þér unni, Og elskan verdi svo sterk, Ad eg hér eptir kunni Umflyja holdsins verk.

5. Þitt blessad ljósid bjarta, Bid eg, upplysi mig, Svo eg í hreinu hjarta, Her-bergi einann þig, Ad eg í ótta þínum Á-fram gángi mitt skeid; Forda mér sári og pínum, Freisting og sálar-neyd.

6. Sjá þú, minn Herra sæli! Sigur ad nœtur-þel; Mitt slot! mitt vernd-ar-hæli! Mitt líf eg þér befel; Eg er þín barnkind auma, Yfirgéf mig ei nú

Lim á þínum líkama, ljúfasti minn Jesú!

7. Eg hef á umsjón þinni Drugga von og trú, Láttú mig æ þar inni Ohultann sofa nú; Herra Jesú hjartkjæri! Hvílu-rúm blessa mitt, Önd mína endurnæri Ordid heilaga þitt.

8. Lát engla fylking fríða, Fadir trúr! ad mér gá, Líka dags-ljósid blída Leyf mér heilbrygdum sjá; Svo med gladværum munni Mætti eg prísa þig, Og hjartans innsta grunni, Amen! bænheyrdu mig!

## Midvikudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Herra Gud í himnaríki.

Drottinn heilagi Herra minn! Heidur sé þér og æra! Aptur er nóttin umlidin Upprunnid ljósid skjæra.

2. Af hiortans rót eg heidra þig, Sem hafdir á mér gætur, Hondin þín bjó svo hægt um mig, Heill komst eg enn á fætur.

3. Framar bid eg þig, Fadir minn! Fyrir vorn lífgjafara, Sannheilagasta soninn þinn, Svo mig í dag bevara.

4. Láttú sjálfur þá somu nád, Sem þú mér jafnan gefur, Enn í dag blessa allt mitt rád, Eins og fyrr verid hefur. 5.

5. Stiörnu þú mínu stnui' og sál', Svo að allt mitt framferdi, Heyðan, vit, giørdir, hugur og mál, Herra! til loss þér verdi.

6. Þíns heilags anda hjástod, best Hjarta mitt virdist byggja, Svo íllt eg eckert ødhafest J dag, sem kann þig styggja.

7. Yfirgef þú mig ei, þitt barn, Umsjón þín góð mér hlífi, Þú, sem mig hefir gædstugiarn Geymt allt frá módur-lífi.

8. Allt hvad eg líd um æfi-skeid, Allt fram' ad burtför minni, Øll mín lucka og øll mín neyd, Er víst í hendi þinni.

9. Þócknist, minn Herra! þér í dag, Þannig vid mig að breyta, Að miskunn' en þá mínum hag, Og medlæti nockurt veita.

10. Láttú mitt hjarta þackláft þér, Þiggja vel slíka mildi, Og þínar gódar gáfur mér Géfnar, brúka, sem skyldi.

11. En skuli nockud ama að, Jllt, sem mér kunni géra, Láttú mig, Drottinn! þýdur það, Þolinmódlega bera.

12 Mér veittú líka, mildi Gud! Mín verk á þessum degi, J þínu nafni uppbyrjud, Øll vel framqvæmast megi!

13. Velgiørdir þær þú veitir mér, Vil eg í allann máta, Sem hlýdin barnskind þacka þér, Og þær mér nøga láta.

14. Dag hvørn svo bid eg, Drottinn! þig, Drag mig frá veroldenni, Vondum girndum og villu stig, Sem vilja fylgja henni.

15. Þess bid eg einninn þína nád, Þó ad eg hrasa megi, Vidréttu Gud mitt veika rád, Vertu mér strángur eigi.

16. Nær eg hefi þér, Herra! nád, Og haldid í trúar-fángi, Hyrdi eg hvorki um himin né lád, Heims þó oll makt forgángi.

17. Æ! hvad þú ert fyrir augum mér, Unnusti sálar minnar! Dýrmætari enn allt hvad er, Ædst hnoss veraldarinnar.

18. Æ! yndælasta elskan mín, Alldrei lát mig þér gleyma, Heldur ástúdleg ordin þín, J mínu hjarta geyma.

19. Ønd og líkama, æru, fé, Øll verk og gjordir mínar, J dag befalad enn nú sé, Einn Gud! í hendur þínar.

20. Leid þú svo áfram lífid mitt, Og laga til himna-ferda, Ad eg í ríkid eilíft þitt Jnntekinn megi verda.

21. Hjartans Fadir á himna-trón, Fyrir hjartans son þinn kjæra, Heyr þú nú mína hjartans bón! Heidur sé þér og æra!

Mid-

## Midvikudags Qvøld-psálmur.

Lagid er: Frid veittú voru landi.

Drottiñ Gud dýrdar mildi, Sem dag-inn hefir til birtu sett, A honum eiñ-ig skyldi Erfida hvørr í sinni stétt, Og á nóttunni aptur Afþýjast verkum frá, Ad mañsins mæddur kraptur, Mætti svefn-værdum ná; Svoddan líkn Gud oss gèfur, Sem gètur nær veikleik mañs, Allt hvad andar-drátt hefur, Almættid prísi hans.

2. J þínu nádar-nafni, Ná geng eg miñ-ar hvílu til, Blessa þú oll mín efni, Uppá þad gladur sofa vil; Eg má þó aumur játa, Þad ángrar af hjarta mig, Ad eg í marg-ann máta, Minn Gud! hef styggdann þig, Medur rángläti minu Margt illt þá hafd-ist ad, Og í augliti þinu, Eckért gott for-skuldad.

3. Ná þó samvitsku særi Syndanna stærd og illgjørd mín O! minn Fadir ást-kjæri, aptur kèm eg nú samt til þín, Fyrir-gèf glæpi alla, sem gjørdi' eg móti þèr, Særdur af synda-galla, Syndú vægd aum-um mér; Burtkasta ei barni þinu, Blessf-adi hyrdir minn! Fyrir Frelsarans pínu, Er fridþægdi lýdinn sinn.

4. O! Fadir, Fadir kjæri! Fadir vors sælá Lausnarans, Mundú nú sjálfs-þíns særi: Ad syndugs viljir ei dauda manns, Heldur ad hann sér snúi Af hjarta og betri sig; Eg því án efa trúi, Ad undan ei tókstú mig; O! þá mín elskan mæta, Ahræri mitt hjartans þel, Lát mig svo líf mitt bæta, Eg læri ad deyja vel.

5. Í nótt og allar stundir, Augliti þínu til mín snú, Vernd þinna vængja undir, Vil eg óqvídinn sofa nú; Mig svo og alla mína, Minn líkama og önd, Eg fel í umsjón þína, Umfadmi mig þín hönd; Sértú ljós sálar minnar, Set eg mitt traust á þig; Nockra óyn næturinnar Málgast lát ecki mig.

6. Hondin þín helg afvendi, Háska, og öllu frá mér snú Illu yfirhángandi, Ef þad kynni tilfalla nú, Voldugur vel mín gæti, Verndar armleggur þinn, Ogn svo ad eng í mæti Önd né líkami minn; Orósemd, illa drauma, Og allt hvad sálu kann þjá, Onytsamlega og auma Ahyggjir tak mér frá.

7. Miskunar Fadirinn mildi, Miskuna öllum kristnum þeim, Er þitt eilíft ráð vildi Utvelja sér úr þessum heim; Lækn-

íng

kng þeim veiku vertú, Vesölum hjálp og skjól, Oss í nótt öllum sértú Ein fögur gledi-sól; Til sængur geng eg gladur, Gud vaki yfir mér, Vel er eg þá verndadur, Vært svo hvilist í þér.

8. Gef mér ad morgni aptur, Megi eg gladvær lofa þig, Þinn gódi guddóms kraptur, Gjöri framvegis vel vid mig, Vilji þinn á mér verdi, Vertú mér nádugur, Farsæl og mitt framferdi, Fadir almáttugur; Lát mig med hegdun hreina, Halda svo bodord þín, Ad þér til lofs alleina, Æfinnar-stund sé mín.

## Fimtudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Blessada þrenning blessud sc.

Heilagi Gud og Herra minn! Heidur sé nafni þinu! Enn má eg prísa almátt þinn Af öllu hjarta mínu, Sem allt frá minni ar æsku tíd Og fram ad þessum degi, Mér enn bráat eigi, Heldur hefir þín blessan blíd Bevarad mína vegi.

2. Fram fyrir ástar auglit þitt, Audmjúkur vil eg koma Enn med lofgjördar offrid mitt A þessum morgun-tíma, Þackandi, Fadir! þinni nád Þessa nætur-vernd

hyra Og dásemd dyra; Og í dag bid eg
minn Þitt ráð Athøfn minni að styra.

3. Af Þinni miskun er Það sked, Ad eg, syndugur madur, Er nú med hughraust hjarta' og ged Heilbrygdur uppvaknadur. Ástar Þacklæti Þér se tjád Fyrir Þína velgjörd alla Og vernd gjörvalla, Þúsundfalda af Þinni nád, Er Þá lètst mèr tilfalla.

4. En hvad mætti eg, aum mannkind! Angrádur fyrir Þèr gráta, Þá eg minnist á mína synd Margdrhygda, sem eg játa? Hjartad Þá sára hugraun ber, Ad hef'eg ei, sem bæri Og verdugt væri, Viljad hlydugur vera Þèr; Vægdú mèr, Fadir kjæri!

5. Minnstú Þíns sonar árnan á Og hans sáruslu pínu, Illgjørdum mínum öllum frá Augliti snú Þú Þínu; Fyrir Þitt nafn, o Fadir! nú Forþenta reidi sefa; Eg veit án efa, Misgjørdir allar munir Þú Mèr af nád fyrirgèfa.

6. Aumur bid eg Þig enn á ný, Ad hjá Þèr miskun finni, Burtskúfa mèr ei brædi í, Barnkind vesælli Þinni; Þú ert minn Fadir eilífd frá, Er Það Þitt nafn háleita, Mèr virdstú veita, Minn gódi Drottinn! gæsu Þá, Guds barn rètt-trúad heita.

7. Eg flý nú Herra! enn í dag, Undir væng nádarinnar, Bidjandi þig minn blessa hag, Af brunni gædsku þinnar, Allann mig fel eg í þitt skaut, Med önd, heilsu og lífi, Hönd þín mér hlífi, Leidi hún mig á lífsins braut, Leystann frá heimsins kífi.

8. Vertú öllum, sem óttast þig, Eilífst ljós og hjálprædi; Blessa mitt líf og metta mig Med lífs og sálar fædi; Láttú þad allt vel luckast mér, Líka verdugt þacklæti Eg greidt þér gæti; Fyrir daglegt braud, sem þigg af þér Og þú undsaldt ágæti.

9. Voldugi Gud mér vert þú hjá, Vernda þú túngu mína Onytsamlegum ordum frá, Er styggja mildi þína, Svo þér til dýrdar, Drottinn minn! Í dag allt mitt framferdi Velskickad verdi, Svo afmáist fyrir anda þinn Illverkin, sem eg gjördi.

10. Lát mig, Herra! svo lifa hér, Ljúfum ad vilja þínum, Ad eg daglega þóknist þér, Þarfur náúnga mínum; Frelsarans Jesú fadmi í, Fagni, voni og þreyji, Sæll sídan deyji, Og med útvöldum eymda frí, Eilíft lof Gud þér segi.

## Fimtudags Qvøld-psálmur.

Lagid er: Vor Herra Jesús vissi þad.

Drottinn Gud fadir dásemdar! Drottinn! sem øllum miskunar Þeim, sem hans hjálpar leita; J þúsund lidu lætur hann, Líkn sína ské vid sérhvorn mann, Sem vill hans bod vardveita. Hvørnig sæ' eg, o Herra minn! Heidur nóglega vidfrægt þinn, Og útbreidt þitt lof, sem bæri? Frá allri skadsemd enn í dag, Andar og lífs minn veikann hag, Geymdir þú Gud ástkjæri.

2. Þiggdú nú af mér þar á mót, Þíns góda sonar fulla bót, Sem blidkadi þína brædi; Fyrir hans nafn miskuna mér, Mig svo framvegis tak ad þér, Heill mín, líf og hjálpræði; Umvef mig nádar ørmum nú, Aldrei mér gleyma viljir þú, Heilog ord þín svo hljóda. Angrar mig mest þig módgad hef, Mína synd alla fyrirgéf Og veit mér ydrun góda.

3. O Gud! veit mér, ad ønd ín mín Andvarpa megi svo til þín, Hvad sem ad hendum bæri, J fullri von og traustri trú; Til mín ásjonu þinni snú, Abba, Fadir ástkjæri! Nú vil eg hvíla hægt med ró, Hjá þér

þer mín sálin vaki þó, Glod þiñi geymislu undir. Augun þó lykist aptur mín, Augun þá blessud vaki þín, Yfir mér allar stundir.

4. Uppá þad sett eg sofna vil; Sérhvad er mér nú heyrir til Fel eg þinni forsorgun; Myrkranna leystur fári frá, Fyrir þinn krapt svo mætti eg þá Mæla þitt lof á morgun. Sorgmædda alla annast þú J nótt, sem kunna verda nú, Qveina og til þín kalla, J nafni Jesú nafn þitt á, nádugi Fadir! bænheyr þá, Gef þeim huggun gjörvalla.

5. Gódgjarni Fadir géf þú mér, Eg géti nú svo lifad hér, Æ! fyrir augsýn þinni, Ad þá mín endast æfi-tíd, Og unnid hefi þetta stríd, Frjáls af armædu minni, Eg megi komast þá til þín, Þar sem útvaldra flockur skín, Og þú villt tár af-þerra; Þig sídan lofa, þrenning blíd! Þar um eilífa lífsins tíd, Amen, bænheyr mig Herra!

## Føstudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Ástsælegasti, o Jesú! Unnusti hjartkjær miñ, Verndadi mig í nótt eñ nú, Ná-

lægur kraptur þinn; Hresti sál mína hvíld-in sú, Heill er og líkaminn; Var mér svo þessi verndin trú, Vanmátt ea engann finn.

2. O! hvad med glødu hjarta hér, Hollu mín geng eg frá, Ond mín fagn-andi þackar þér, Þú guddóms tignin há, Nætur-hvíld þá, sem nú gafst mér Nóttu lidinni á, Og adrar slíkar ástgjafer, Ei þær fulltelja má.

3. Eg bid harmþrúngnu hjarta med: Herra! fyrirgef mér, Oll mín afbrot, sem eru skéd, Ond mín þvi qveinar sér; Syndinni hef eg hjartad léd, Herbergi þitt sem er, Andvarpar því mitt grátid ged, Gud minn! um vægd hjá þér.

4. Stjórni í dag þín mildi mér, Minn Gud og alla tíd, Líf mitt gjörvallt og hegdun hér, Hönd þín framleidi blíd; Adhyllist gott, sem ydka ber, Illt varist fyrr og síd, Svo heppnest nær eg héd-an fer, Hvíld eptir unnid stríd.

5. Ebl mína von, mitt traust og trú, Til þíns blóds Jesú minn, Því fridþæg-ingar fórnin sú Færdi mér árøxt sinn; A þessum degi Drottinn þú, Daudann lík-ama þinn Grestrast léist, svo ad gjørdir nú Gledi-svefn dauda minn.

6. Gef

6. Gef þá mer náð eg gæt' að því, Grestrist syndir mínar Þínum djúpu blóð-undum í, Og allar hyljist þar, en aldrei drottni uppá ný Í mér rót vondskunnar; Leið mig af öllum löstum frí, Í ljósi guðrækninnar.

7. Frelsarans Jesú síngið blíðt, Faðmi mig örmum tveim, Önd mín, líkami' og allt sé mitt Ætíð verndað af þeim; Eins og sjáaldur augna þitt, Elsku Faðir! mig geym. Lát öll mín verða afbrot quitt, Áður enn skilst við heim.

8. Fyrir þitt blóð og beiskann deyð, Barn þitt eg dýrkeypt er, Verk minna handa vel framgreið, Svo verði til lucku mér. Yfir þá alla blessun breið, Brauðs sem rétt abla sér, Hjálpaðú þeim í hvorskyns neyð, Sem hafa sitt traust á þér.

9. Þegar vér heimi forum frá, Í föðurlandið inn, Lífið vort vera láttú þá, Líknsamur! dauða þinn, Þín helg gröf sé vor hvíld, þar má Hægt sofa líkaminn; Í sælu vist þér sjálfum hjá Svo leið oss, Jesú minn!

## Föstudags Qvöld-psalmur.

Lágið er: Hærsti Guð. Herra mildi.

Himneski Herrann mildi! Hún dagsins komið er, Þín guðdóms gæðskan

vildi, greinduſt ad tímarner, Svo einn Dag eptir annann, Eg kém daudanum nær, Þá ſæ eg ſognud ſannann, Fyrſt Jeſús yfirvann hann, Hvild mín því verdur vær.

2. O þú elſkulegaſti Endurlauſnari! trúr Hjartans huggarinn beſti, Heill mín og verndar-múr, Medkénni eg miſkun þína, Mér, ſem enn hefir veitt, Sanna medaumkun ſína, Sálu bevarad mína, Frá hvorskyns háſka lejdt.

3. Sonur Guds Jeſús ſætur, Sannur Immanuel, Sem ad oſs géſur gætur, Geymir frá íllu vel, O! Gud gæfi! eg kynni, Þitt aumt og veſælt barn, Þöckn-aſt ſvo elſku þinni, Sem þú ert ſálu minni Mildur og gædſku-gjarn.

4. Gud nádi gleymſku mína! Gud beiri ſlíka ſynd! Hvar med eg hátign þína, hefi ſtyggt, aum mannkynd, O! hvad mig mætti trega, Min ſála! gæt ad því Og þad rétt yfirvega, Ad vid þanninn daglega Gaungum fram glæpum í.

5. Nú med því nætur-rockur Nálægir myrkur ſitt, Kém eg fram hjarta-klockur, Kroſsfeſta elſkan mín! Minnſtú ei ſynda minna, Margfjölda þeirra gleym, Veit mér þeim bót á vinna Vegna blód-unda þinna; Vernda mig vel og geym. 6. Nád

6. Náð þín í nótt mér hlífi, Náð þín mig bevare, Yfir ondu og lífi Ætíð þín fridur sé. Láttú ógn nætur eigi Ónáða kunna mig, Unn mér eg aptur mege Á tilkomanda degi, Ljóssins Gud lofa þig.

7. Hugga í hormum sínum Hjortu trúadra fróm; Upplyptú augum þínum Yfir þín kristindóm. Herra! þitt blódid hreina, Hjá oss nú finni stad, Líkfroptug lækning meina! Lát ei manneskju neina Á sér ónýta það.

8. Enn í nótt nálægd þína, Og nádar-ljós fagurt þitt, Láttú ljóma og skína Legu-rúm kríngum mitt, Í því mín ondin vaki, En holdid leiti sér Hvíldar, og hressíng taki, Hjartad samt til þín qvaki, Sef eg þá sætt í þér.

9. Veit mér, Lausnarinn ljúfi! Lífsmedan dvelst eg hér, Að eg minn allann hafi Andar fognud í þér, Þángad til þú mig kallar Þessari mædu frá, Í dýrd til himna hallar, Hvar eg um aldir allar, Auglit þitt sælt mun sjá.

10. Heyr þú nú, Herra mæti! Hvors eg grátbæni þig, Á villtu veraldar-stræti, Villast lát ecki mig. Hédan vill hjartad leita, Hefir þad girnd til þín, Þetta

virdstú

virdstú mér veita Vegna þins kjærleiks heita, Amen, þad ósk er min!

## Laugardags Morgun-psálmur.

Lagid er: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Almáttugur Gud állsherjar, Einn réttur fadir gædskunnar! Eg aumur, hladinn sekt og synd, Saurgud og vesøl skêpnu-kind, medkénni þessa morgunstund Miskun þina á alla lund, Og márgfold gædi gêfin af þér, Gódi Herra! og audsýnd mér.

2. Ástríkar gjafir allar þær, Elskuríkasti Fadir kjær! Þacka eg mildri þinni nád, Þúsundfold lofgjørd sé þér tjád; Gêf ad eg aldrei gleymi hér Því góda, sem þú veittir mér, Heldur sem annad hlýdid barn Heidri þig, Drottinn nádargjarn!

3. Sjá mitt ángrádt og sorgfullt gêd, Sem þig nú bidur tárum med: Fyrirgêf mína sök og sekt, Synda athæfid ógudlegt, Móti þér guddóms þrenning blíd, Þessa viku og alla tíd, Sannhelg forþénan Sonar þins, Syndir afmái hjarta míns.

5. Ljúfi Drottinn, mér líkna því, Leid þú mig þinum sannleik í; Ast þín veri mér adstod blíd, Allra minna lífdaga tíd, Hjarta mitt.

mitt aldrei láti laust, Lífs míns og sálar einka traust, Fostust trúar sadmlogum þig, fyrr enn þú hefir blessad mig.

5. Hønd þín í dag mér stjórni sterk, Styðji og blessi øll mín verk, Láttú þau ské til lofs vid þig, En luckast vel fyrir sjálfann mig, Og [illegible] framqvæmd fá, Farsæl þad, Drottinn himnum á, Drottinn blessi vort daglegt braud; Drottinn bæti vorn skort og naud.

6. En skuli í dag ad skickun þín, Skadsamlegt eitthvad vitja mín, Offókn, þrautir og þreyngíngar, Í þessum ósjó veraldar, Réttú mér þína hjálpar-hønd, Svo hvørki fordjarfist líf né ønd, Heilagt þolgædi géf þú mér, Glóandi von og trú á þér.

7. Miskuna þeim med þinni nád, Þú, vort einasta hjálpar-rád! Er þín leitandi elska þig, Í þér svo megi gledja sig. Alla naudþreyngda bænheyr best, Blessan þeim aumu meddeilest, Géf voru landi gledi og frid, Góda rósemd lát haldast vid.

8. Lát oss þyggja med þacklátt geð, Þinar gáfur, sem hefir þú léd, Géf mér aumasta þínum þjón, þad er, Drottinn! mín audmjúk bón: Þad hjarta, sem þig heidri vel, Heita elsku og kjærleiks-þel; Yfirgéf Herra ecki mig, Æfinlega eg vona á þig.

9. Sál mín æra og embætte, Í þína geymslu falið sé, Endurlausn mín og aðstoð trú; Engla þinna lát varðhald nú, Umkríngja mig á alla hlið, Allskyns skaðræði forða við, Svo lengi, sem eg lifi hér, Lidsemd þeirra sé yfir mér.

10. Þú, sem mig hefir vel varðveitt, Viku þessa í náð framleidt, Lát mér svo, gódi Guð! þenuann Gledi-dag verda farsælann, Að eg megi þér, Herra! hjá Hjartans rósemd og Unun sá, Leystur af mínu mótlæte, Mildasti Drottinn! lát svo ské.

## Laugardags Qvøld-pfálmur.

Lagið er: Oldúngar Júda annars dags.

Ó! hvað mikil þín miskun er, Mildasti Drottinn! samjofn þér, Omæliteg frá eilífð sú, Það er mín trú; Svo er hún stór sem sjálfur þú.

2. Svoddan miskun var sæl og blíd, Sál mín! um lidna dagsins tíd, Ockur géfin af guddóms náð, Med gædsku dáð, Honum sé dýrd á himni og láð.

3. Þessi dásamleg hjálp og hlíf Hefir frá slisum geymt mitt líf, Vard því við eingum háska hætt, En hjartað kjætt Lof. mínum Gudi sýngur sætt.

4. Fram-

4. Framar bid eg, minn Fadir! þig, Framhalltú þinni náð við mig, Afmá þú mínar misgjörder, Mig tak að þér, Nauðstöddum ecki nejta mér.

5. Yfirgef þú mig ei, minn Gud! Þitt auma barn, í minni nauð, Vegna þíns Sonar sára = flóds, Sannhelga blóds, Sem út er runnið oss til góðs.

6. Kom, minn Jesú! Guds kjæri Son, Med kroptugu þína fyrirbón, Til lífs og sálar hjálpar hér, Í hjarta mér, Seg þú: minn fridur sé med þér!

7. Minn vertú lærimeistari; Mildur Gud andinn heilagi, Hvorja stund er þín hjástod ný, Eg huggast því Breyskleika mínum öllum í.

8. O þú há-blessud þrenníng þýð! Þinn nádar-væng eg undir skríd, Gæti mín vel í nótt enn nú Þín nálægd sú; Hún sé mitt skjól og skjaldborg trú.

9. Svo sem þitt barn vel vardveittann Vera lát mig og óhultann, Hæga svefnró og hvíldir fá, Háska, neyd, þrá, Sonur Guds Jesús svipt mér frá.

10. Allt mitt svo fel eg á þitt vald, O. minn Jesú! mitt lausnar-gjald! Öndina, líf og æru mín Í umsjón þín, Medan hérvistar dvöl ei dvín.

11. O! Jesú vak þú yfir mér, Enga skadsemd lát hreyfa sér, Ottalaust sef eg uppá það, Sem eg nú bad, Hönd-in þín sæl mér hjúkri að.

12. J hjarta mínu hvíld þér bú, Heilagi guddóms andi nú, Svo eg í mínum svefni hér, Sist gleymi þér, Hvörs-kyns þraut, sem að höndum ber.

13. Þrí-eini Guð! í þína náð, Þessa nótt fel eg allt mitt ráð, Líkna þú mér í lífi og deyd, Leys mig frá neyd, Yf-ir mig þína blessun breið.

14. Þegar dags-ljóma skinið skjært Skuggann nætur fær burtu hrært, Lát þá sál mína lofa þig, Leid sídan mig Fram á þann rétta fridar-stig.

15. Vera sé þér og ædsta dýrd Af engla- og manna túngum skírd, Heilaga þrenning himnum á, Halelújah! Um allar aldir Amen já!

# Adrir
# Viku-Psálmar,
orktir af
Ymsum Merkis-Skáldum.

## Sunnudags Morgun-psálmur.
Lagid er: Sæll dagur sá.

Sú kémur stund, Kroptug fram þegar alla Af grafar-blund Guds Sonar rauft mun kalla, Og eilífs lífs, eda dóms vekja til. Eg verd, min sál! Einn med i þeirra skara; Lifs leid er hál, Likn Drottins enn sem sparar, Þig þess ei dyl.

2. Enn vard þér vært; Vægd Drottins enn þitt hefir Fjör endurnært, Og fodur-trygdar gefur Þér merki ný; manstú til hvors þad ſkér? Guds lánglundar Géd á þér til hans snúa, Til eilífdar Ad þig hér skulir búa, Lifs-tóm hann ljer.

3. Þér

3. Þér vaki sá Þánki jafnan í brjósti!
Synd fæli frá, Fýsi dygd ad kappkostir!
Eilífd eg flytst vid andartak hvort nær;
Hann fylgi þér Framqvæmdir lífs ad
starfa, Ad áftundir Ödrum og þér til
þarfa Hér horfi þær.

4. Rótfest hjá mér, Minn Fadir! áform
þetta! Kénn mér, ad hér Hef' ei bólfestu
rétta; Mitt fødurland er Frelsaranum hjá!
Ad þángad eg Þaunkunum hvorn dag snúi,
Þann þrædi veg, Þar til mig jafnan búi,
Lid þitt mér ljá!

## Sunnudags Qvöld-psálmur.

Lagid er: Nú hvílist sól og setst.

Uppdregst ad auga-brá Enn daudans
bródir; Mig gleymiñ miñir á, Mæl-
andi-hljódur: Minning daudans dag hvorn
sersk hjá þér vaki! Hef' eg þad hug' innrætt
Hast, og í dag þess gætt, Ad enda' eg taki.

2. O sál' ódaudleg mín! Eld' eg heill
þína? Hugsan sú: hverful dvin Hérvistar
lína; Jók hún mér megn mót girndum
heimsins blindum? Og hvatti' ad ydka
dád, Adhyllast Guds míns ráð, En sjá
vid syndum?

3. Væg, Fadir! væg í náð! Væg þræli sekum! Lát brot mín ljót afmáð, Létt hefndum frekum! Sjá! hjarta sært, hatar synd, til þín leitar, Sem einka athvarfs síns, Í nafni sonar þíns Um náð ei neita.

4. Mig foður-forsjá sú Fékk í dag sparað; Í nótt mun annast nú Og trú bevara. Hels-dúr mig frá heim loks þá svæfir kaldur, Ónd vakin fundin frí Fadm' þínum badi í Eilífda' um aldur!

## Mánudags Morgûn-psálmur.

Lagið er: Upp! upp statt í nafni Jesú!

Drottinn mitt ljós og lífgjøf er, Því lýsir dagur nýr upprunninn nú; Í myrkri' eg lá, ei vissi' af mér, Mitt líf vardveitti,. Gud! þín geymsla trú; Ei myrkra mein Mér ollu skadrædis; Þitt ljós mér skein, Því vard eg frí vid slís.

2. Þú útbreidir enn yfir mig Med nýju ljósi nýrrar gædsku gjøf; Umsjá þín fædir fodurlig Med fjøri nýju mig af myrkra grøf! Rok þessi sterk, Ad þú sért øllum nær Og ást þín merk, Ónd minni furdu fær.

3. Lát þá yfir mér skýa' í dag Ljós þitt, heillum og blessun býta mér; Þín forsjón stjórni holl í hág Hvert mér sorg eda sæld gagnlegri sjer; Fridar ljós þitt Fagurt í sál' ef skín, Þá er mér fridt; Öll fýkrast mæda mín.

4. Upplýs því augun innra manns Í dag, svo boda þinna gæti gád; Og bjartann feril Frelsarans Fetad, vaxid sem hann í vitsku og nád! Þín grunnlaus ást Í honum tjád vid mig, Skal mér hugfost Hvert eitt vid lífsins stig.

## Mánudags Qvøld-psálmur.

Lagid er: Mjøg lídur nú ad myrkri nátt.

Drottinn mitt ljós og lífgjøf er; Lífs míns er vottur þar um þetta qvøld; Hans andi lífs mér sjenti sjer; Lét mig forþént ei hitta glæpa gjøld; Hvad skyld' eg þá Hrædast náttmyrkrin svert? Líka þau hjá Ljóss-fødur eru bjørt.

2. Víst má eg hrædast verkin mín, Væg, Fadir! aumum mér, þau eru ill; Enn á eg adgáng þó til þín Þíns fyrar í trú; Gud minn víst ei vill Syndarans deyd,

deyd, Saklaus hans einka son Sárqvalinn leid, Sekur lífs fêck því von.

3. Þad ljós upp myrkur lýsir mín; Lyst qveikti í mér þá, ad elska þig Og hlýdinn stunda þjónkun þín; Þó brot mín séu mørg, hans mildilig Og vís forsjá Vel kann þeim bæta úr; Mitt traust þar á Allt er: minn Guð er trúr.

4. Fullhuga reyndri fel eg því Hans forsjá líf og sál; þó liggi' eg lágt, Mín hlífd trygg vakir hædum í, Hønd hans ad verja mig ei veitir bágt; Í daudans dal Dymmum eg fell' ei mód, Ljós hans mér skal Lífs eilífs opna slód.

## Pridjudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Herra Guð í himnaríki.

Hock, lof, sê fyrstur þánki minn. Þinn Guð tigna, minn andi! Guð Herrann loffaung heyrir þinn, Honum loffýng sagnandi.

2. Lágt eg í fridi lá og svaf, Lífs naud fjørlaus ad varna; Nattvørdir hvørr mér neytar gaf, Nædi hinum máttfarna?

3. Hvørr vakir, þá eg ei veit til mín, Og vidheldur lífi minu? Hvørr eblir

mitt blód til ydju sin, Afsthrir háska' og pinu?

4. Hvort tamdi þá skyldu augad á Aptur sér tryggt ad lykja? Hvort bjortum degi baud framgá Af blundi önd ad vekja?

5. Þú ert þad, Drottinn! alheims Gud! Allt er þitt, Gud! vort lífid; Oss í hag enn því heldur vid Og hefir þad n'ytt mér gefid.

6. Kraptarins Gud! þinn gofgum mátt; Gofgud sé trygd þín, Fadir! Enn eptir væra nædis-nátt Nýjann dag sjáum gladir.

7. Yfir mér blessan uni þín; Æ lát mig veg þinn feta; Ad vilja þínum verk öll mín Vandad kenn mér ad geta.

8. Adgæt líknsamur allt mitt rád; A þig mig, Fadir! reidi, Ég hættum vert mín hjálp og dád, Frá hrösun fót minn greidir.

9. Fyllt gef mér hjarta fridi þín, Fyllt ást og trúar-styrki; Skynsamt gef hjarta', er skyldu sin Skilji og ástúst verki.

10. Ad eg trúlyndur þjón sem þinn, Þíns ríkis jafnan leiti; Grandvar, kirkisur, gudrækinn, Fyrir Guds nád hlaup mitt þreyti.

11. Ad brædur sjás eg adstode, Omak, kostgæfni' ei spari, Af gæsu' annara gladur sé, Og gudlegu dagfari.

12. Í þínum ótta' ad lífs-tóm léd; Og líssins gædi noti, Og endi mitt hlaup med gladvært géd Glas mitt þá vilt' sé þrotid.

## Þridjudags Qvøld-psálmur.

Lagid er: Sjá, hvad dagurinn ferd enn fljótt.
Edur: Hvørr veit hvad fjærri' er æfi endi.

Míns Guds fódurleg mildi sparad Mig hefir enn nú þenna dag, Fyrir slíkum líf veiklegt varad, Vikid syrir mig øllu' í hag; Þacklát med viknun því mín ønd Þína mynnist vid fódur-hønd.

2. Mig orlát saddi, mér nam svala, Mér lédi klæda', og húsa-skjól, Ad heyra' og sjá og hugsa' og tala, Hjá mér eñ krapta máttug ól; Brjóst mitt vakti og breiskleg géd Bending' síns ords og anda med.

3. Æ! hvørr fær huga ysirfarid Ástgjafir þínar? Fadir minn! Én héldt eg þá þad hafd' eg svarid: Hlýdinn ad reynast sónur þinn? Notad' eg gæd' er gafstú mér, Gud minn! sem vìss' eg þóknast þér?

4. Fyrirgéf brot mín, Fadir kæri! Fyrr'enn mín augu lykja sig; þinn andi sátt og svølun færi Samvitskan þegar

klagar mig! Sjá! allt mitt athvarf, öll lífs von; Er, sá fyrir mig leid, þinn son.

5. Af honum vid þig sjálfann sættur, Sál', líf og allt mitt fel eg þér; Fullvíss, mig eckért sár né hættur Fái skadad, nær þú mig ver; Ad morgni eg þá aptur rís Uppþyngdur, skal þinn syngja prís.

6. Allt eins deyjandi eg mun hneigja, Í trú þíns sonar, höfud mitt, Eg mun þá sofna' enn ecki deyja, Signast vakandi ríki þitt, Hvar þig og hann um eilíf ár Med englum prísar raust min klár!

## Midvikudags Morgun-psálmur.

Lagid er: O! Fadir himneski' og eilífi Gud!

Upprís mitt hjarta, og í mér hvad býr! Upprís mín túnga, og máli rétt stýr! Upprísi lofsaungur andaktar nýr! Uppvís inn dags-rodá nótt flýr.

2. Dyrmman er uppljómud, foldu' sem sól, Framskín af myrkrinu ljós á heims hól. Fegursta réttlætis, sæll Jesú! sól, Sól vertú önd minni og skjól!

3. Eg lá, sem andvana, nakinn í nótt, Nockurn ei finnandi líkama þrótt, Lífsins og dauda var milli bil mjótt; Mér lét þó Guds verda nád rótt. 4. Hvn

4. Hún, bid eg, leidi mig helgri í stett! Hún í dag greidi minn fóta-stig rétt! Hún ollum sneydi mig hamingju-prétt! Hvorgi svo veidi mig tál sett.

5. Lát oss, Gud! nema ad lifa svo hér, Lifs vora tehum svo daga vitrer, Allir þá deyjum vér, Drottinn! í þér, Dýrdina medtokum glader.

6. Eg vil af heiminum fara sem fyrst, Fyrst mér í himninum búin er vist, Brúdgumans til hefir b:údurin lyst, Brúdkaup svo þeirra fullkomnist.

7. Þó skal eg, Drottinn! þín bída, sem ber, Berandi dags-þúnaann, lid veittu mér! Eilífur sómi og þockin sé þér, Þríeini Gud! tjed um alder!

## Midvikudags Qvøld-psálmur.

Lagid er: A Gud alleina.

Minn tími stendur, Minn Gud! í hond-um þín; Enn er á enda Eitt skref af vegferd min; Leidtogi tryggur Trygd þín enn reyndist mér; O, hvad oryggur Er, Gud! sá treystir þér! Fyrir ollu' er óliggur Enn þá best honum sier.

2. Þigg mitt þacklæti, Þér, sem hrærd særir ond, mót"ollu' ágæti, Er veitti mér Þín hond; O! hvad eg minni Ást er Þiñi' og trygd! Saurgad hef sinni Af synda vidurstygd; Vægd, Fadir! vinni Og vorkun minni dygd.

3. Sjá! synd eg hata; Þú sjer mitt hjarta-þel; Eg vil afláta, Öll bod þín rækja vel; Veikum þú vægir, Viljann á-littur minn, Hjarta þad hægir Hræddu vid breyskleik sinn; Nád sú mér nægir, Ef náloegann þig eg finn.

4. Nú fer ad nóttin, Nádþurfi' eg leita þín; Þinn, Gud! á þróttiñ Þorgód von stendur mín. Síst mun mig saka, Þá sit í skjóli því; Þú veitst ad vaka Svo værda njóti' eg frí, Og mig ad þér taka; Í þad hæli' eg flý.

5. Í deyd óryggur Er, Gud! sá treyst-ir þér, Leidtogi tryggur, Trygd þín þá reyníst mér. Minn tími stendur, Minn Gud! í hondum þín, Ef vilt útendud Ad snart sé vegferd mín; Í fridar sodurs hendur Fel eg sál' leysta' af pín!

Finitur.

## Fimtudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Ryck se Þier góð giörd.

Liti hér lyder, Ljómann himins skiæra, Oss sem ber og lier Augad heims frábæra; Geislarner glæster Gledja, verina, næra, Farsældir færa.

2. Prísum mátt, hljótt, hátt, Himnaljóss skapara, Er svo þrátt og dátt Af oss tekur vara; Lidna nátt, likn, sátt, Lét, svo kynnum hjara, Vid oss framfara.

3. Erum vér aumer, Oyædis á landi, Berum hér hrjáder Hita dags stynjandi; Verum sér samt hver Sinu vel í standi Guds verk gjörandi.

4. Stormarner strider Stráin ná uppræta; Mótgángs hér hrider, Hrjá oss, þjá og græta. Jeg trú ber bider, Brá þó sáir væta, Nád mun neyd bæta.

5. Dags-midin, Drottinn! Dásemd þína róma, Okomin öldin, Utbreidir þann sóma; Hugur minn hvert sinn Hátignar þinn blóma, Ljós dýrdar ljóma!

## Fimtudags Qvøld-psálmur.

Lagid er: Himna rós, leid og ljós.

Burt er nú birta sú, Bar oss dags-sól, Haudur þekur, heim inntekur húm

 dymmt;

dymmt; Dvala-tíd lúnum lýd þjenar náder. Væra nótt, vit og þrótt veiti Gud mér!

2. Sérhvør øld sitt á qvøld, svo sem dagsstund; Lífid tærist lengra færist leid á; Umferden endar senn, eg fæ hvílder. Væra nótt, vit og þrótt veiti Gud mér!

3. Enga þraut á lífs-braut eg í dag fann; Minu rádi mildur gádi ad minn Gud, Misgjørd af mér hann gaf margri lausner. Væra nótt, vit og þrótt veiti Gud mér!

4 Gódann dug heilann hug hann mér vid héldt; Andar bædi og lífs fædi eg finn; Herra sá ad mér á allar þacker. Væra nótt, vit og þrótt veiti Gud mér!

5. Komid hér qvøld nú er, kom, minn Drottinn! Æ mig geymi hér í heimi hlífd þín! Eign og bæ eg þér fæ ad vardveiter. Væra nótt, vit og þrótt veiti Gud mér!

6. Zions hrós, sálar-ljós, sæli Jesú! Sem í mædu-myrkrum skjædu mest leitist; Lýs mér, þá ljós heims frá lídur allt hér. Væra nótt, vit og þrótt veittú nú mér!

Jostu-

## Föstudags Morgun-psálmur.

Lagid er: Jesú Kriste! þig kalla' eg á.

Blessada þrenning blessud sé! Blessandi hagi mína; Líkn og nád, sem mér ljetst í tje, Lídsemd og miskun þína; Líf mitt og sál' umlidna nátt Leyst hefir enn frá vanda Og illum anda, Svo í dag hef' eg megn og mátt, Í mínu kalli ad standa.

2. Ó! hjartans Fadir! eg bid þig: Yfirgéf þú mig eigi, Annastú nú ad ollu nng A tilkomanda degi; Haldtú svo fast í hönd med mér, Ad hendi mig slísin engin Mé glæpa gengi, Heldur hvad, sem eg forma fer, Farsælist vel og lengi.

3. Eg befel mína aumu önd, Og vesælann líkama, Og þurfanda líf í þína hönd, Þennann dag og hvörn-tíma; Hegdun, vit, skyn og hug-kvællt, Hjarta, skilníng og sinni, Sem mál og minni, Ord og gjördir og áform allt Innlæst' eg til-sjón þinni.

4. Blessa þú inn- og út-gáng minn, Og allt hvad eg skal vinna, Vidmót og hegdun sérhvört sinn, Sels og gáng fóta minna, Ydju, vilja, rád, ásetníng, Allt hvad eg er og orka, Til vits og verka; Umspentum vodz allt um kring, Auk þrótt! géf trúna sterka! E 6 5. Hvad

5. Hvad þér til dýrdar, einn Guð! er, Og til velferdar minnar, Framqvæm það allt í aumum mér Af nægð miskunar þinnar; En ef í dag þín bodord brýt, Breisk-leika mínum vægðú Og hegníng hægdú! Hjálp og náð þinni, Fadir! flýt, For-þénta reidi lægdú!

6. Enginn er Guð annar enn þú, Og enginn hjálpari manna! Því bid eg þig í naudsýn nú Náð þína lát mig kanna; Geym mín frá allri glæpa slóð, Gef mér þitt ord eg læri Og ávöxt færi. Fyr-Jesú blessada blóð Bænheyr mig, Fad-ir kjæri!

## Föstudags Qvøld-pslámur.

Med sama Lagi.

Lof sé þér, Guð! fyrir lidinn dag, Og luckusæla stjörn alla! Þú hefir leidt minn lífsins hag Og látið mér allt vel falla; Þó hef eg blessuð bodord þín Brot-ið í margann máta, Hvad eg nú játa; Minnstú aldrei á íllverk mín, Unn mér af syndum láta.

2. Nú er adkomið náttar-hel, Nú vil eg hvíldir taka; O Guð! sem geymir Is-

ſrael, Yfir mér virdſtú vaka; Utbreiddur verndar-vængur þinn Börnin ſé mín á-gæta; Géf ſveſn-ró ſæta! Veittú mér, hærſti hyrdir minn! Hjálkrunar náqvæmd mæta.

3. Eg befala þér, Drottinn dýr! Dag og nátt ſálu mína, Legg þú yfir mig, Herra hýr! heilaga bleſſun þína; Líf og áſtvini, eign og bæ, Allt-hvad þín nád margháttud Og mildi máttug Gaf mér, eg þinni geymſlu fæ, Gud! þér mig treyſta láttu!

4. Eg legg nú ſaman augun mín, Í Guds nafni og trauſti, Signi mig heilög höndin þín, Hyrdir minn gódi og hrauſti! Signdú fólkid og ſigndú hús, Signíng þeſſi oſs hlifi Og íllt útdrífi; Signíngin þín, ſannur Jeſús! Signud yfir oſs blifi!

## Laugardags Morgun-pſálmur.

Lagid er: Himna-rós, leid og ljós.

Dagur er, dýrka ber Drottinn Gud minn, Nótt er lidin, lof ſé Gudi! ljós ſkín; Gledur eñ marga menn myrkra flóttinn. Líf og ſál, líka mál lofi Drottinn! -

2. Fyr-

2. Fyrir þinn son og sælu-von sé þér hærst lof! Mig þú spar'dir, meinum vard-ir, minn Gud! Mér gafst frid, lífn og lid, leid svo nóttin. Líf og sál, líka mál lofi Drottinn!

3. Mig hefir leidt, meinum eydt miskunin þín, Hvorja stundu' á heimsins grundu hér til; Afvend þér ei frá mér, nær af-legg þróttinn. Líf og sál, líka mál lofi Drottinn!

4. Eg bid þig: annast mig enn í dag nú, Fyrir þann sanna sál-vin manna, son þinn, Veit mér náð, vernd og ráð, vægd og lidsinn'. Líf og sál, líka mál lofi Drottinn!

5. Helgann dug, hreinann hug hjá mér uppqveik, Þér ad hlýda, líka lida lán dags, Og þúngann med þolugt-ged þreyja hlýdinn Gódann dag, gladann hag, géf' oss Drottinn!

6. Hvad eg hér forma fer farsælist vel, Utgáng, framgáng, inngáng blessa æ min, Og í náð allt mitt ráð annast hvørt sinn. Gódann dag, gladann hag gef' oss Drottinn!

7. Eg fel þér allt hvad mér ádur gafstú, Sé þinn dugur mér máttugur, minn Gud!

Gud! Bæti sá, best sem má breiskleika minn. Gódann dag, gladann hag gef oss Drottinn!

8. Lif og önd, efnin vond, eg nú þér fel, Öllu illu, voda og villu ver mig; Sómi og dýrd sé þér sífellt, Gud minn! Lif og sál, lika mál lofi Drottiñ!

## Laugardags Qvöld-psálmur.

Med sama Lagi.

Gudi vér hefjum hér helgann qvöldsaung, Dagur lídur fagur, fridur, fæst því Hvíldin hæg, þjátum þæg, því skal hvert sinn, Lif og sál, lika mál lofa Drottinn!

2. Eilíf náð allt vort ráð annast hefir, Slísa-föllum afstýrt öllum oss frá; Syngi þér allt hvad er' ædst lof, Gud minn! Lif og sál, lika mál lofi Drottinn!

3. O! hvad mjög opt hef eg illa mót þér, Dygdum hafnad, syndum safnad, sál min Kallar því eymdum í á þig, Gud minn! Lifid hér leidist mér, leys mig, Drottinn!

4. Enn framar âkallar önd mín þig nú: Ad mig geymi hér í heimi hönd þín; Verndin þín, vörnin mín veri hvört sinn. Góda nótt, gott og rótt géf oss, Drottinn!

5. Veit oss ró, frid og fró, Fadir! í nátt, Lát ei granda íllann anda oss hér; Engla her med sé mér máttugur þinn. Góda nótt, gott og rótt géf oss, Drottinn!

6. Eg fel þér allt hvad mér ádur gafstú, Sálu og lífi hjálpi' og hlífi hönd þín. Allt hvad er medur mér mikli prís þinn, Líf og sál, líka mál lofi Drottinn!



## Nockur ágæt og útvalin Qvöld-Vers.

*I.*

Lagid er: Gud miskuni nú öllum oss.

Vertú hjá oss, því komid er qvöld, Kristni þinni, vor Herra! A þessari heimsins ytstu öld, Ei lát trú vora þverra. Gud Fadir, Sonur og Andi hreinn, Oss blessi allasamann, Vegsami hann og óttist einn, Allt mannkynid um heiminn, Segjum af hjarta: Amen!

*II.*

Lagid er: Náttúran öll og edli manns.

Qvöld míns lífs þegar komid er, Kom þú, minn Jesú blídi! Og hugsvala þá aumum mér J hördú daudans strídi! Hvert qvöld til þín Hugsar sál mín, Hvert qvöld eg bid, og segi: Vertú hjá mér, Minn Herra! hér, Heidur þinn þverri aldreji.

*III.*

III.

Lagid er: Vor Herra Jesús vissi þad.

Enn gefur Jesús yfir mig nótt, O, minn Drottinn! þér vil eg fljótt, Dyrd fyrir dags-stod vanda; Jesú! lát þú ei leidast þér, Lángvarandi ad sendq mér, Hjástod og il þins anda, Minnst ei, Jesú! á mína synd, Mér gef þú hæga hvíldar-stund, Ekkert lát íllt mér granda, Eg fel mig nú og mína ønd, Mildasti Jesú! þér í hønd, sofna eg svo án vanda.

IV.

Med sama lagi.

O Gud! vardveittu oss þinn lyd, Eptirkomandi nætur-tíd, Med elín umvardandi, Voldugra engla verndar-skiøld, Virdstú nú senda oss í qvøld, Hver oss geymi frá grandi, Svo vér mættum í sætri ró, Sofa óhult; en vakna þó Til lofs lifandi Gudi. Unn oss, Drottinn! þá æfin þver, A hædum dyrd ad syngja þér, I sælum samfagnudi.

V.

Lagid er: Fadir-vór, sem á himnum ert.

Hvørt eg sef, vaki, sit eda ligg, Siá þú til mín og ad mer hygg, O Drottinn! hjalpa

hjálpa aumum mér Af þinni náð, sem mjøg stór er; Hvíl yfir mér þín blessan blíð, Bæði í nótt og alla tíð!

## VI.

Lagið er: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Útaf skal hér uppá leggjast, Eigðú Jesús! dvel hjá mér, Eg míns hjarta innan veggja, Uppreiði nú hvílu þér, Heims á-hyggja, happ og nauð, Hverfi burt og liggi dauð, Ys veraldar eg vil hafna, Og hjá mínum Jesú sofna.

## VII.

Lagið er: Sólin upprunnin er.

Svo skal hér sofna uppá, Sæng minni eigi Vill minn Guð víkja frá, En við mig segja: Sof, mitt barn! sætt, Byrg þig í þínum klæðum, Þú skalt, stund ei er laung, Uppvakna' í engla-saung Og himna-hæðum.

## VIII.

Lagið er: Rís upp, mín sál! og bregð nú bl.

Í Jesú nafni útaf sofna, Umfaðma fast í trú þinn Guð, Hann mun þinni øsku upp-safna, Inn þá þú leggst í bein-húsið, Í þann dag, sem er engla klár, Að eins maðka-fæðan forgár.

## IX.

Lagid er: Kjær Jesú Kriste.

Dýr dagsins ljómi Dvínar enn í stad; Lífs lyst og blómi Lídur þannig ad Mædu, mold og dauda. Mildi Jesú! geym Sefnud þinna sauda, Sól' hefjandi þeim. Hrigd og ótta hrynd oss frá, Hrek á flótta synd og þrá, Ytstu nótt í yndi há Andar, vend af heim.

## X.

Lagid er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Hverr dagur, vika, ár og old Endast þá þess er sídasta qvold, Ad settri tölu' í sama mund, Svo kémur og vor dauda-stund; Unn oss þá, Jesú! eg þig bid, Ærlega' ad skiljast heiminn vid!

